HJER ER ÖNNUR

# LITIL FERÐA SAGA

**Eiríks Olafssonar.**

er var á Brúnum í Rangárvallasýslu,
nú í Ameríku, Utah í Spanishfork, árið 1881-82.

Bókinn segir frá, um ferðina frá Íslandi til Utah í Ameríku, og um ymislegt er hann sá og heyrði á þeirri leið, og um mart veraldlegt hjá Mormónum og þeirra trúarbrögð.

Prentað á minn eiginn kostnað í Kaupmannahöfn,
í prentsmiðju S. L. Möllers.
1882.

# Efnisyfirlit.



**Bókinn er því nær 6 arkir og kostar 1 krónu.**

# Formáli.

Þegar jeg var búinn að vera hjer í Spennichfork i 24 vikur, fór jeg að taka saman þennan litla bækling, þá var jeg búinn að sjá og heyra og skilja, hvad satt var, og ósatt, af því sem hjeðann var skrafað, og prentað á Íslandi, jeg hjet því með sjálfum mjer, áður enn jeg fór af Íslandi, að ef jeg sjæði og heyrði, að þeirra trú Mormóna, væri rjett, sem er, að taka saman nokkrar línur, og verja mínum peningum til þess að koma þeim á prent, og sína ykkur kjæru landar mínir, ef þið kynnuð að trúa mier, sem jeg er ekki vonarlaus um að einhver kunni að gjöra nú sem fyrri, er jeg gaf út þá litlu ferðasögu, er jeg fór til Hafnar, margir sem siglt höfðu, báru mjer meðvitni, að bókin væri sönn, og þessi bók er alt eins sönn, með andlegt og veraldlegt enn margfalt þarflegri heldur enn hin, ef vel er að giætt, enn jeg bíst við, að prestum og höfðingum, þyki að þessi bók komi í bága við sig, og sín trúarbrögð, og segi að þettað sje illa gjört af mjer, að koma henne á prent. og láta fólk siá hana.

Enn heyrið þið mjer, megið þið ekki eins og almúginn þakka Guði fyrir, að hann hefur skipað að senda til ykkar menn, með boð og brjef, um að trú og hlíða sínum boðum, og forkasta mannaásetningunum, jeg vil taka til dæmis, ef menn væri í byl, þoku, eða dimmu, viltir úti á eyðimörku, og einhver maður væri sendur til þeirra, og leiddi þá úr villunni, á rjettan veg

til sinna heimkinna, það mundu flestir þakka og máske launa. Ellegar ef menn væru af óhlíðni, í ósátt við lögin og dómarann, og settir í fángelsi, og dæmdir í slafari alla sína æfi, og ef einhver maður kæmi, og bryti upp fángahúsið, leiddi þá þaðan út, gerði ónytan dóminn, og gæfi þeim fult frelsi, og gleðilega æfi sína lífstið.

Ætli flestir sem eru með heilbrigðri skynsemi, þökkuðu ekki þettað, jú, allir, því heldur ef einhver væri sendur, til þess að leiða menn af vegi glötuninnar, á veg sáluhjálparinnar, sem er nú minn tilgangur og hjártkær vilji, og óska að þið kæru landar, viljið hlíða mjer, að lesa og hugsa með eptirtekt, hver fyrir sig sjálfur, hvert sem þú ert æðri eða lægri stjettar, og gá vel að, hvað ritningin segir, og þá sjái þið, hverir sannast segja um trúarbrögðin, enn ef nokkrir eru, sem ekki trúa ritningnnni eða hirða um sannleikann, þeir munu sínu fram fara, hvað sem hver segir, enn jeg vil ráðleggja öllum, að biðja Guð með auðmjúku hjarta, að gefa sjer vilja og skilning, til þess að geta sjeð og trúað og hlítt þeim boðum, sem leiða menn til eilífrar sælu, það ættu allir að óska eptir og biðja um með hjartaus löngun.

Biðjið og mun yður gefast, leitið og munuð þjer finna knýið á, og mun fyrir yður upp lokið verða, og ef þið gjörið þettað, með hjartans alvöru og auðmykt, þá bænheyrir Herran yhkur, og gefur ykkur skilning um, hvað rjettast er, svo þið verðið sáluhólpinn, sem allir ættu að sækjast eptir, af fremsta megni.

---

# Lítið samtal.

Það er byrjun á þessum línum, að jeg seint á árinu 1880, mætti kunningja mínum á förnum vegi, og eptir að við kvöddumst, segi jeg við hann, er nokkuð að frjetta, hann segir já, jeg heyri sagt, að það sje ávalt að stækka Mormónatrúarflokkurinn í Reykjavík og Mosfellssveit, og jafnvel stöku menn víðar, þá segi jeg, ætli að sje þá satt, hann segir já, þá segi jeg, hvað er fólkið að hugsa, að sinna þessari Mormónatrú, þá segir hann, missionarnir sem komu í haust, Jón og Jakob, komu með prentað bók, er heitir, «Aðvörunar og sannleiksraust», samin af Þorði Diðriksson mormón; fólkið er að kaupa hana og lesa, og finnst hún vera sönn, og trúir henni, þá segi jeg, ætli biskupinn og prestarnir okkar, viti ekki eins vel eða betur um trúarbrögðin heldur enn Mormónar, þá segir hann, jeg hef heyrt sagt, að þegar prestarnir okkar faraa að tala við Mormóna um trúarbrögðin, þá hafi prestarnir ekkert við, og reka flest alt sem þeir segja, með ritningarinnar orðum, þeir segja að barnaskírnin sje ónýt manna setning, komfirmationin manna boð, altarissakramentið rangfært, það sje til minningar enn ekki til syndakvittunar, jeg varð hálf hlessa, og segi, ekki er það trúlegt, að þarna, þar sem prestarnir okkar eru búnir að vera að læra í skóla í mörg ár, fyrst í heimaskólananum, og sumir í mörg ár á háskólanum í Kaupmannahöfn, hann segir, lærdómurinn hjá þeim mun nú lenda mest í því, að læra þessi mörgu tungumál, og ymsa veraldlega fræði, sem ekki er mikið til sáluhjálpar, jeg segi, jeg fer að kaupa bókina hans Þorðar og heyra hvað hann segir; jeg þekki Þorð, hann er gáfumaður og bezta skáld, endum svo talið, og skildum svo med kveðju.

Litlu síðar beiddi jeg nágranna minn, að ljá mjer bók Þorðar, enn jeg fjekk hana keypta fyrir eina brenni-

vinsflösku, og er það, það bezta og þarfasta kaup, sem jeg hefi keypt á æfi minni, jeg fór svo að lesa bókina og bera hana saman við ritninguna og nýjatestamentið, eins og þeir í Beróa forðum, Postul. gjörningabók 17. kap. VII, þegar jeg er búinn að marglesa með eptirtekt í einrúmi, sje jeg þá að alt stendur heima við bækurnar, og að ekkert verður rekið hjá Þorði, og er allstaðar beinlínis bygð á spámanna, frelsarans og postulanna orðum, og svo segir bókin líka og sannar með mörgum síteringum, að okkar lútherska trú, sje ekki bygð á rjettum grundvelli, sú fyrsta uppbyrjun á okkar skírn, var uppfundin framm í Afríku á þriðju öld eptir Krist, og voru katólskir menn er fundu upp á fyrst að nudda eða skvetta köldu vatni á höfuðið á veikum manni. Komfirmations lagaboð frá konungi Kristjani sjötta í Danmörku árið 1744, jeg varð nú hálf hlessa að heyra þettað, jeg 55 ára og hafði ekkert um það fyrri heyrt, jeg hugsað þá sjaldan mjer datt það í hug, að þettað væri Guðs boð enn ekki manna, jeg hafði aldri heyrt nokkurn prest um það tala, eða á nafn nefna á minnæfi, og hafði jeg þó mart heyrt, og svo líka segir bókinn, að sakramentið sje eptir frelsarans orðum til minningar enn ekki til syndakvittunar. Mjer þótti nú þettað allmiklu skakka með trúarbrögðin, og fór að fá þanka af þessu, og segja við sjálfann mig, hvað á jeg nú að gjöra í þessu efni, ætli jeg eigi að láta dóla svona í minni gömlu luthersku trú, eins og flestir gjöra, nej, jeg þori það ekki, því mjer finnst það sennilegra og á betra grundvelli bygt, og hugsaði með mjer, ef jeg sinni ekki þessum lærdómi eða trúarboðan, ef hún er sú sannasta og rjettasta þá geti skeð að jeg fari illa, og yðrist eptir það um alla eilífð, og verði sá nagandi ormur, sem aldri deyr, jeg fór að hugsa úti það sem Jesus segir við Nikódemus, hjá Jóhannesi í 3 k. v. 3. og 5. «Sannlega, sannlega segi, jeg þjer, ef maðurinn

fæðist ekki útaf vatni og anda, getur hann ekki fengið inngöngu í Guð ríki, og svo líka sem postul. Páll segir í brjefinu til Galatamanna 1. kap. v. 8. Enn þó að vjer eður engill frá himni boðaði yður náðarlærdóminn öðruvísi enn jeg hef kennt yður, hann sje bölvaður, þessi orð þókti mjer mikilvæg og eptirtakanleg.

Aptur á stundum flaug í þanka minn með nokkri alvöru, ætli mjer dugi ekki til að fá eilíft líf þessi mín gamla trú, sem forfeður mínir hafa lífað og dáið í, og allir prestar segja, að okkar lutherska trú sje rjett, enn þeir hata, fyrirlíta og forsmá mormóna og þeirra trúarboðun, ósköp verður fólkið og kunningjar mínir hlessa á mjer, ef jeg fer að skipta um trúarbrögðin, jeg stend nú þarna nokkurn tíma á báðum áttum, á vegamótum, í efa um hvað jeg á að gjöra, jeg les bókina svo konan mín og fólkið heyrði, og sagði því um leið mitt álit um hana, og það væri næst mjer að trúa henni og hlíða, vegna þess að Þorður mun segja það alt satt er hann segir í bók þessari, konan mín segir, þú verður hataður, spottaður og fyrirlitinn af flestöllum, ef þú ferð að verða mormóni, hvert bókin er sönn eða ekki, enn ekki þarf jeg að vera hlessa á því, þó mormónar tali um manna setninga, því faðir minn sál. Runólfur Sigurðsson, sagði alltaf að það væri manna setningar sem lúthersku prestarnir kenndu nefnilega að barnaskírnin og staðfestinginn væri manna boð enn ekki Guðs boð, hann var gáfaður og víðlesinn, og trúðum við því og margir fleiri, og síra Páll skáldi í Vestmanneyjum hafði sagt, er hann kom eitt sinn til hans, að það væri sannleikur, enn það er ónyt athöfn eða trú fyrir Guði, enn við prestarnir verðum að hlíða þessum gamla vana, svo við verðum ekki settir af hempunni.

Litlu síðar komu þeir til mín mormónar Jón og Jakob jeg tók þeim vel og beiddi jeg þá að prjdika hjá mjer, til þess að fá frekari fullvissu um þeirra trúar-

brögð, og hvert þeim bæri saman við ritninguna eins og Þorði, þeir taka því vel og viljuglega að gjöra það, enn segjast þó vera blessa á mjer, að jeg skuli þora eða vilja, ljá þeim hús, til að prjedika í, því það þora eða vilja fáir leyfa okkur; jeg sendi svo útum næstu bæi, ef einhverir vildu koma og hlíða á, það komu nokkrir svo það urðu als 15 manns tilkeyrendur, þeir pjedikuðu í 2 kl. enn ljetu singja á undan salminn, «Drottinn send oss nú anda þinn», og á eptir sálminn. «Syndugi maður sjá að þjer». Í ræðunni framfluttu þeir nokkrar greinir úr spurninga kverinu mínu, og rita hjer 2, fyrst þessi: Guð þekkist ljósast af sínu orði, sem lesa má í þeirri heilögu ritningu sem kallast Biblía. Önnur þessi: «það er víst að þann Guðs vilja sem mannelskuna áhrærir, er að finna í Biblíunni; þessvegna kallast hún guðs orð, því hún kenner oss fullkomlega og augljóslega alt það sem syndug manneskja þarf að vita, sjer til endurbótar, sáluhjálpar, huggunar og sannrar velferðar bæði í þessu og öðru lífi. Þegar endað var spurði jeg alla hvernig þeim hafi líkað, allir svöruðu vel, jeg spurði fólkið að, hvort því hafi fundist þessi ræða villukenning, allir sögðu nei, það er þvert á móti, og enn spurði jeg, gátuð þið rekið nokkurt orð af því er þeir töluðu, allir í einu hljóði sögðu nei, við hugsuðum að þeir mundu ekki kenna svona satt og gott, það er þvert á móti því sem sagt er um þá, þetta sögðu nú tilheyrendurnir, og voru þó sumir af þeim velgáfaðir, jeg sannfærðist mikið við þessa ræðu, mormónar voru hjá mjer um nóttina og spurði þá um allt sem mjer datt í hug um trúarbrögðin, helzt um skírnina sem mestu munar og mest áríðandi fyrir mannsins sáluhjálp, eins og frelsarinn segir hjá Markum í 16. kap. v. 16. «Hver sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, enn sá sem ekki trúir mun fordæmast, þessi hans orð eru auðskilin, að menn verði að hafa vit, mál og trú

áður enn menn skírast, það er að segja, kominn til vits og ára, og þeir sem skírast þeirri rjettu skírn, munu verða hólpnir, segir Jesus, enn þeir sem ekki vilja trúa því rjetta og sanna, þeir láta víst ekki skírast, og þeir munu fordæmast, úngbörn fárra nátta eða vikna, hafa hvorki vit, mál nje trú, og eptir þessu eru allir lútherskir menn óskírðir, þeirri rjettu skírn, og er það mjög íhugunarvert fyrir alla æðri og lægri. Þessi frelsarans orð styrktu mig í trúnni svo mikið, að mjer fór að detta í hug, að láta skíra mig, með niðurdífingarskírn, þó bar það til stöku sinnum að það striddi á mig efasemdir með að trúa og skírast, og jeg væri nú orðin of gamall til þess að fara að skipta nm trúarbrögð, og stóð hjerumbil á vegamótunum enn, að hugsa mig um hvað jeg ætti að gjöra, Þórður ráðleggur í bókinni sinni, «Aðvörun og sannleksraust» seinast í 5 kap. hvað maður á að gjöra, þegar maður er í óvissu um hvað sannast er, hann segir.

Jeg vil ráðlegga þier kæri þessari að auðmýka þig fyrir þinum föður í himninum, og biðja hann um vísdóm til at þekka hvurt, það sem þú hefir lesið er sannleikur, og ef þú gjörir það með auðmjúku og einlægu hjarta, mun guð auglisa þier sannleikanu fyrir krapt heylagsanða.

Þessari ráðleggingu hlyddi jeg, og beiðði guð af alvöru opt og mörgum sinnum dag sem nótt, og stundum grátanði, að gjefa mjer í mitt hjarta, fulla vissu fyrir því, hver trúinn sje rjettari eða sannari og gjefa mjer stirk og aðstóð til að trúa og hliða því sem leiðði mig til eylifslifs, þú minn guð þekkir mitt hjarta, að mig langar til að fá allar þar blessanir sem þú hefur lofað þeim, rjettrúðu, svo að jeg sitji þær ekki af mjer; fyrir óhliðni eða þá eitingaleisi, um mina saluhjalp, svo að jeg fái úr bitum borið lífsins kórónu.

Eptir að jeg hafði beðið guð um þetta nokkurjum sinnum fiekk jeg í mitt hjarta meirri og meirri skilning, og fúlla vissu um að bök þorðar, og mormona trúar bóðun sje sú rjettasta og sannasta, og gat þá vel skilið og trúað því, að guð hafi sent Eingil til Jarðarinnar, og skipað Joseps mitt að boða þessa trú um allann heim, og þá hvarf frá mjer allur efi um trúarbrögðinn, og hefi alt af trúað staðfastlega til þess þann dag í dag, konann min skipti sjer litið um þetta, og ljet trúár-brögðinn ligga í millum hluta, þó jeg væri að lesa og útlegga fyrir henni ritníngannar, þar til hana dreimdi merkileganu dröim, hún sagði, jeg er nú vissum, og trúi því staðfastlega, að það er áreiðanlegur sannleiki sem mormonar seiga, að guð hafi sent Eingil til Joseps Smitt með þessa trú, og svo dreinidi hana annann dröim rjett aður enn hún ljet skira sig, sem stirti hana í trúnni enn meir, og þakkadi guði fyrir þá ópinnberun, og var trúföst til dauða dags, vinnúkona var hya mjer vel gáfuð, hún og dóttir min, trúdu þessum sannleika, fult svo fljótt sem jeg.

Eptir að mormonar höfðu predikað hya mjer, barst það niður í Reykjavík og viðar, og fór jeg að sjá fyrir-litningar svip til min, og forakt af imsum er sáu mig, og só lika í blöðunum haðslegar spóttglosur, um að það væri kominn höfuðkirka mormona í Artuni og Eyrikur væri liklegur til að fylga þeim og s. frv. jeg atti marga kunninga í Reykjavík, og þar í kring, einstaka af þeim voru eins þægilegir sem adur, sumir litu mig ekki rjettu auga, og sumir húðskömmuða mig, og kölluðu mig trúarniðing og mart fleirra því um likt, þegar jeg gjekkum götunnar í Reykjavík, þá gjeingu köllinu og spóttglós-unnar til min frá imsum, og sögdu að jeg triði nú orðið á fjandann, og hann mundi braðum sæka mig, og mart fleirra þessu likt, er fjandinn útbjó í þeirra hjörtu og munn, mjer þókti þetta firsti stað nokkur freisting,

enn gat þó vel setið á mjer, að svar ekki illu og láta eins og jeg heirdi ekki til þeirra, og var ánægdur og glaður með sjálfum mjer, og gladdi mig við frelsarans og Davids orð. Jesus segir hjá Matteum í 5 kp. vers 11—12 sælir eru þjer þegar menn atyrða yður, og tala í gegn yður alskonar vonsku eða illyrði min vegna, enn þó ljúandi, enn fagnið því og verið glaðir, því yður verðkaup er mikið á himnum.

Og Jesus segir hja Jóhannesi í 15 kp. v. 14, þier eruð mini vinir, ef þjer gjörið það sem jeg hefi beðið yður, og í 18. v. Ef heimurinn hatar yður þá vitið, að hann hefur hátað mig fyrri enn yður.

Og Davíð segir í Salm. 119. v. 51, þeir dramblatu hæða mig ákaflega, enn frá þinum boðum vík jeg ekki, og í 61 Hópur óguðlegra umkringir mig, enn jeg gleimi ekki þinum skipunum.

Margir úta strætum og í búðum í Reykjavík, beiddu mig í spotti að predika, jeg sagði við suma, það hæfir ekki að kasta perlum fyrir svín, eða helgidóminum fyrir hunda, við suma, sem Halgrimur segir. Margir finnast enn hjer um heim, Heródes likar rjettir, guðs orð er skjemt og gaman þeim, sem glens eður nýar freittir, við suma, jeg vil predika yfir ykku sannleika fyrir ekki neitt, enn ef jeg predika ástædulausa vitleisu og ligi yfir ykkur, þá verði þið að gjalda mjer peninga, hvort vilið þið heldur, þeir svöruða, við viljum heldur heira sannleikann þá sagði jeg, alti þið verðið þá ekki eins og Pílatus er hann sagði, hvað er sannleikur, sumir samsintú það, og enðaði svo.

Margir höfðingar, þó kunningar minir, í Reykjavík ávituðu mig fyrir að jeg hafi tekið þessa hötuðu og vitlausu trú, enn kastað minni gömlu og rietta, Biskupinn sjalfur, auk heldur aðrir, enn það var nú mjög litið fyrir hjá hönum, er við töluðum saman jeg fór eitt sinn inntil hans með bók þorðar, Aðvörunar og sannleiksröist, og

og beiðði jeg hann að reka hennar innihald ef hann gjæti það með Ritningarinnar orðum. Þá skildi jeg undir eins sleppa mormóna trú, enn ef þjer gjetið það ekki, þá trúi jeg því að betur mormónum, jeg rietti bókina að honum því jeg var með hana, enn hann gekk þá þeigandi frá mjer úr skrifstófunni, inni hina stófuna, og skeldi í lók, þetta gerði jeg af ásetningi og alvöru, og æltaði mjer að standa við orð mín, hefði hann rekið bókina, enn jeg vissi fyrir vist, að hann gat hvergi rekið hana með gildum ástæðum, og hann hefur vitað það líka, og því tók hann af skarið, og rólaði frá mjer, þetta er nu ekki trúlegt, enn er þó dag satt, þegar jeg fór inntil hans var jeg á vegamótunum í þankaminum, með trúar brögðinu, því jeg var þá óskirður, enn út för jeg frá honum með einlægum ásetningi að trúa mormónum, og lata þá skira mig, því jeg fór einskis visari út frá honum, hvert sem það var af hans vilialeysi, eða gjetuleysi, mjer var sama.

Enn það er undarlegt og eins og það sje ósiálfratt að Biskupinn kjennir í sinum bókum, alveg sama og mormónar kjenna, í sinum ræðum og ritum, sem fáir munn taka eptir, sem jeg skal þó tilvisa, í kvöldlestra hugvekunum, frá vetur nottum, til langaföstu, og munu vera brúkaðar viðast hvar um Ísland til lestra.

Það er þá first til í 4 hugveku, að hann til visar öllu fólki á Íslandi að lesa faðirvorið hjá lukasi í 11 kapitula, þar vantar í það 2 og 4 bænina, eins og hjá mormónum.

Í 11 hug. talar hann um að allir, sjeu fallnir frá hliðni við guð, eins og mormónur segja, og því bóða þeir fólkinu að skírast, þeirri rjettu skirn, í 25 hug. latar hann um, að rjettkristnir, sjeu heilagir, og fleirra í henni gótt, og er samkvæmt mormónum, og þeirra órðum.

Í 62 hug. segir hann, maður á að skirast frelsar-

ans skirn, í endur gjetningar lauginni, og endurnyungu heilags anða, eins og 'mormónar sega og gjera, hann segir okkur þetta sem erum komnir til vits og ára, og erum að lesa hugvekuna, og liggur beinlinis sú meining í því, að við allir sje um óskirðir, og eigum það eptir, og fara að hans ráðum, og lata einhvera gjöra það, sem first, aður enn maður deir, og ef hann bannar fólkinu að gjöra það, sem hann er aður búinn að seiga, að eigi að gjöra, þá er hann í sjalfum sjer sundur þikkur, og er það auðsjeð að hann samsinnir mormónum, með að skira fullorna enn ekki börn, í 80 hug. er hjartnæmur sannleikur sem allir ættu að gá vel að, og hugleiða, Biskupina sjer eigiæta vel, og útmálar allar illgjörðir og vonsku mannanna, sem margar eru, og hann seigir dag satt.

Enn hann þekkir ekki og veit ekki, um þá goðu og rjettu lækningu, sem fólkið vantar og þarf að fá, sjer til lækningar, við sinni miklu vonsku og spillingu, af hverju þekkir hann það ekki, af því að hann vill ekki liti lækka sitt sinni, og gá vel að því rjetta og sanna í guðsorði, og er so andvaralaus í sinni velsæla, og miklu launum, og svæfandi gamla Vana, þess vegna vil jeg ráðlegga honum, af minni hjartans álvöru og vorkun sem, að gá að sinni saluhjalp, og hugleiða versið hjá síra Hallgrimi Pjeturssini í sálminum 15, v. 6. Enn þú sem att að vera, útvalinn Drottins þjón, verk hans og vilja gjöra, og varast þitt sálartjón, andvara engvann hefur, úmhiggú litill sjest, við glis heims gá löis sefur, gud náði svoddann brest. Pjetur Postuli þekti og vissi betur um lækninguna við öllum illum orðum og gjörðum, er lesa má í Postul. gjörningabók 2 kap. v. 38. Á Hvita sunnudag þegar Pjetur sagði fólkinn hvað ilt þeir hefðu gjört til orða og verka, að kvelia og deida Jesus guðs son, og fólkið trúði því er þeir sögða, og samviskann sló það með ótta, þá sagði fólkið við Pjetur

og hina Postulana, hvað eigum við að gjöra goðir menn og bræður.

Pjetur sagði þá við þá, takið sinna skipti, og hver ýður láti skira sig til nafns Jesu Krists, til fyrir gjefningar sindanna, þá munnd þjer öðlast gjöf heilags anda, í 41 þeir sem trúðu lietu skira sig nær 3000.

Kjæri lesari og allir sem orð min heira, jeg vil spyria úkkur, í hverum hópnum vildu þið hafa verið, þeim skírða eða óskirða, hugsið þið úkkur um með íkkar saluhjalp.

Þetta var lækninginn við illgjörðunum, hún kostaði ekki mikla penínga, hvað hugsi þið, hvað haldi þið, má ekki brúka sömu lækninguna fyrir illgjörðinnar, á þessum timum eins og á Postulanna, já vissulega ef fólkið vildi trúa og hliða, eða hefur guð umbreitt því, eða áftekið það, ney, það finst, hvurgi, skrifað, þar herra Piskupinn er góðhjartaður og vernmaður, þá vil jeg, ráðlegga honum að breita eptir nafna sinum, ef hann vil að vel fari, þar hann er höfuð allra Íslands mann, að hann raðleggi og skipi öllu fólki það sama og nafni hans gjörði, heldur enn að vera að, láta prenta í pukri, miða til allar Profasta, móti frelsarans og Pjeturs heilögu boðum og kipunum, ekki veldur sá sem varir, þó ver fari.

Enn jeg bist við að Biskupi þiki vera, kominn skörinn uppi bekkinn, með að jeg er að uppfræða, og út þiða fyrir honum Nýasestamentið, og að breita eptir nafna sinum, og mun hann virða min órð að vettugi, og vill ekki heira þaug eða sinna þeim, og mun vilja að allir aðrir sjeu eins, að einginn sinni minum orðum eða liái þeim sitt hægra eira, til yfir vegunar, enn Biskupinn og hans vinir, og embættis undir þjónar, munn meta meira, og treista og hliða, bækling sjera Helga Halfðansen, og ræðu sjera Sveinbjörs, sem komnar eru á Prent, og útsendar um alt landið, tilað að vara fólkið

við að trúa ekki sannleikanum, og Prestannir hvetja fólkið til að ljá því eirunn, og hófhalda og heiðra þessa menn fyrír sin aðvörunar rit, þó það skini útur þeim (nefnilega ritunum) ef að er gað liginn spottið, og hatrið, og sannast það vel nú á timum sem Hallgrím Pjetursson segja í Passiú salmi, 7, 12 og 13 v., sem orð guðs ekki heira eiga þó kóstá því, heirn er þeim hægri slió, vinstri hlust heillri halda, hað og spelni margfalda, nóg gjeta numið þó, hægra eira meinar skaldið, að þeir danfheirist, við því, sem er betra rjettara og sannara, enn hafi opinn eirunn, við því vonda, haði og ligi, sem er nog af í veröldinni. Í 13. v. Á guðs óvini alla, einkjenni slíkt er sett, órð guðs ey akta hjer, jeg bið og jafnann seigi, Jesus minn láttú eigi, það merki siast á mjer. Kjæri lesari, að gjættu vel, hvað sannleikur er, því skáldið kallar þá alla guðs óvini, sem ekki akta um hvurju þeir trúa og hliða, þó þeir sjái að það er vitleisa og mannasetningar.

Enn Herranum sje Eylift lóf, og óendannlegar þakkir að hann tók þetta merki af mjer, enn það var ekki mjer að þakka, það var góðum guði að þakka, þá er jeg beiðð hann um skilning, að hann gaf mjer vilja og löingun til þess að sjá og skoða, heira og skilja, trúa og hliða, sannleikanum, og jeg er þakklatur til herrans, glaður og ánægður, og jeg hlakka til að fá að lófa guð og vegsama um alla Eylifð, fyrir sina náð og miskun semi, er hann áuðsindi mjer, aumum sindara, og vil segja eins og Hallgrím, í Salm. 25, v. 13. Þá muntu sál min svara singandi fögrum tón, lof sje minum lausnara, lamb guðs á hærsta trón, sigur gaf sinum þjón, um blessaðar himna hallir, honum seigum vjer allir, heiður með sætum són.

Þessu næst lætjeg nú fara að skira mig, því jeg er nú sannfærður um að þessi skirn er sú rjettasta, og vil jeg segja þier kjæri lesari um þá athöfn, máske þú hafir ekki heirt það, og þig langi til að vita það, jeg

skal segja þeir alveg satt um það, hvert sem þú trúir því eða ekki, maskie að þú, eður þú, ef þú ert fátækur og litils virtur, að þú trúir mjer, og látir skira þig, þá skal það standa heima, hvernig sem þjer list á það, það voru helst 2 hlutir sem dróu mig til að trúa, 1 bók þorðar Diðriksson, Aðvörunnar og sannleiks röist, og annað, það ósjalfraða hátur sem lakt er á mòrmóna og trú þeirra og trúar frelsið fyrir nokkurium árum útgjefið. Það er eins og sumir menn ráði ekki við, það er eins og maður gjæti hugsað, að andskotinn hafi þá til að siga þeim á mann, þegar hann sjer að hann er búinn að tapa þessum og þessum úr höpnum sinum, enn það er útstúðierað. Svika bragð af honum, því þá veit hann að hinir sya, hvurninn fárið er með þá, hátaðir, spottaðir, og fyrir litnir, þú skalt trúa, þetta gjörir ekki so litið til, það er sem flestir hórfa í og hræðast, og lata so ströminn bora sig í lógninu og möllunni, og í andvara leisi með Prestunum sinum, enn hvart, gáið að því í tíma, það er heilrædi, áriðandi móti satans brögð um.

---

## Um órd og átvik Skirnarinnar.

---

Jeg og konanu min og ein stulka, Lietum Jakop Jonss, mormóna skira okkur þann 30. apríl 1881, þeir skira annaðhvert úr hreinu vatni, eða úr hreinum sjó, og allir á nærfötum. Þegar maðum kjemur að vatninu, tala þeir nokkar orö eða eins og stutta bæn, með upp-liptum höndum, og biðia guð í himninum, að blessa og helga þetta vatn, sem þessir menn ætla nú að skirast og endurfæðast í, til þess að hliða þinum heilögu böðum og til þess að af þvó sinar mörgu sindir, og bidia þig

heilagi faðir í himninum, auðminklega með hrærðu hjarta fyrir gjefningar á sinum mörgu illverkum og boðorðabrotum, og biðia þig heylagi guð og faðir um stirk og aðstóð til þess að geta lifað betur í endurnyungu lifðaganna og til þess að geta staðið stöðugur í sinum skinarsáttmála alt til æfiloka, og hver sem vakir og biður og stöðugur stendur, hefur þú lófað, að hann skuli fá lifsinskóronu, og svo f. v., og að þessum bænar orðum enduðum, gekk hann úti vatnið, því nær í mitt læri, og jeg med honum, þá segir hann með uppliptri hægri hendi, Eýrikur Ólafsson, jeg skiri þig í umboði Jesu Krists, í nafni guðs föðurs, og sonar, og heylags ánda amen!

Svo tók hann annari hendi um hendur minar, og hinni á herðar mjer. og lagði mig svo aptur ábak ofani vatnið, svo það flöit yfir mig allann snöggvast, og kypti mjer svo úppur, og svo hafði hann sömu orð og atvik, við konu mina og stulkuna, eins og mig. Og svo eptir að við vorum búinn að klæða ókkur í þúr fót; lagði hann bádar hendur á höfuð mjer og segir.

Ó, þú heilagi Abrahams, Ísaks og Jakobs Guð, þú sem trónar í himninum, þú sem hefur lofað að senda þína blessun yfir þá sem trúa og hlíða þinum boðum, og eru búnir að láta skíra sig til syndanna fyrirgefningar, jeg bið þig heilagi faðir, að senda þinn heilaga anda yfir þennan mann, til að styrka hann móti öllum illum árásum og freistingum satans og heimsins. Sömuleiðis bið jeg þig heilagi faðir, að innsigla og skrifa þessa manns nafn í lífsins bók á himnum, svo að hann megi finnast í tölu þeirra útvöldu, þegar bækurnar verða upplátnar á síðasta degi, þú minn kæri herra hefur sagt, að það væri meiri gleði í himninum, yfir einum syndugum sem yðrun gjörir, heldur enn yfir 9 og 90 rjettlátum sem ekki þurfa yfirbótar, við og er það nú skeð á þessum manni fyrir þína miklu náð og miskunsemi, en

þú hefur auðsýnt honum er hann vill lofa þig og dyrka fyrir, um alla eilífð, herrann styrki þig, og blessi þig, og svo frv., og sama gjöði hann ogsagði við konu mína og stúlkuna.

Nú hefi jeg sagt þjer lesari minn, um skírnaraðferð mormóna, hvað sem þú dæmir um hana, illt eða gott, enn ef þú hefur lesið tálsnöruna, hvað, jeg ætlaði að segja bók síra Helga Hálfdanson, þá sjerðu að það munar nokkru hjá okkur, þar sem hann er að uppfræða fólk á 9 blaðsiðu, um mormóna skírn, sumt satt enn sumt lýgi, og þar sem hann er að spotta, hæða og ljúga, um sáluhjálp mormónakvennfólks, sem allir skynsamir menä sjá, að er samansett af hatri og ótugt, eins og eptir hálfheiðinn og illa artaðann strák, og er ólíkt að nokkur maður trúi því, það mundi mörgum þykja ótrúlegt af biskupsefni, að vera að spotta með skírnina, svo merkilega athöfn, enn hæðni og spje kemur hverjum á hnje, að lokunum, og Hallgrímur Pjeturson segir í sálm. 14. v. 16. «Ef hjer á jörð er hróp og háð, hæðni og guðlast niðursáð, uppskorið verður eilíft spje, agg og forsmán í helvíti«, ekki eru launin skemtileg, enn hver þorir að vefengja, að það sje ekki satt, jeg vil ráðleggja þjer lesari, þó þú sjert hálærður að vera ekki með spott og háð, í 19 v. «þú veizt ei hvern þú hittir þar, heldur enn þessir Gyðingar».

Jeg vil enn segj þjer, að jeg var einn af þeim mörgu sem var hneygður fyrir að bölva mjög opt, og vildi jeg opt reyna að hætta því, enn jeg gat það aldri enn strax eptir að jeg var skírður, gat jeg alveg hætt því, áður þoldi jeg ekki spottglósur, eða ertingar enn nú á jeg hægt með að þola það, og vara ekki neinu illu á móti, og, jeg þekti mig varla sjálfur, á eptir skírnina, hvað jeg átti hægra með að stjórna geði mínu og tungu, þó þið máske trúið mjer ekki, enn jeg get ekki gefið ykkur trúna, og allra sízt þeim ríku og lærðu.

Svo fór mjer að detta í hug að fara til Ameríku, og selja alt er jeg átti, því að jeg vissi og frjetti að mormóna trúarfólk, fer árlega hundruðum saman til Útha, úr góðu löndunum, og því skildi maður þá ekki fara úr Íslands greijnu, sem altaf er magurt, og opt illviðra hólmi. Líka segir Jeremías í 3 k. v. 14, komið aptur þjer frá fölnu synir, segir Drottinn, því jeg er yðar herra og jeg vil við yður taka, þó ekki kæmi nema einn úr borg, og tveir af ætt, og flytja til Sion, máske einhver segi, hvar er Sion, eða hvar er þessi Babylon? jeg þekki það ekki, jeg skil það ekki, ef þú vilt vita hvar þær eru, þá skal jeg kenna þjer ráð, lestu bók Þorðar Diðrikssonar og ritningunu og berðu þær saman, þá geturðu sjeð og skilið hvar þær eru, þú máske segir, mjer ríður lítið á að vita hvar þær eru, jeg læt fyrirberast hjerna jeg fer ekki að hreyfa mig, það fer fullvel um mig hjer, enn Hallgrímur segir: Til varygður í velgengni, varla trú jeg mig dreymi.

Nokkru áður enn jeg sigldi kom klausa um okkur mormóna í Norðanfara, með fyrirsögn: Úr brjefi frá Reykjavík, um að jeg væri þekktur um alt land fyrir heimsku, enn jeg reiddist því ekki, jeg gaf mjer ekki vitið sjálfur, enn þú sem ritað og stilað hefir, þykist hafa margfalt meira vit enn jeg, og það getur vel verið að Guð hafi gefið þjer það, enn þá átt þú margfalt fleirum pundum að svara enn jeg, af þínu mikla viti, er þú brúkar til að sverta og níða mig og aðra, fyrir það að við vorum að leita að, og finna veginn til eilífs lífs, enn þú munt ekki þurfa að leita að honum, þú með þínu mikla viti, munt vita hvar hann er, og þykist vera á rjettum vegi, enn brjef þitt sýnir í Norðanfara, á hvaða vegi þú ert, og hvernig þú brúkar það vit, sem þú hefur frammyfir mig, enn jeg er ánægður og glaður, í minni fávizku, og hugga mig, og er sannfærður um sem Páll segir í fyrri pistlinum til Korintumanna 1 k.

26 v. heldur hefur Guð útvalið hina fávísu heimsins 27, svo hinum vitru gjörðist kinnroði, og þá enn lítilmótlega í heimsins augum hefur Guð útvalið 28, þá hina ógöfugu í heiminum og fyrirlitnu, hefur Guð útvalið, og þá sem ekkert þókti í varið, til þess að gjöra ekkert úr þeim, sem nokkuð þókti í varið. Þessi Páls orð sannast vel á okkur mormónum, heimurinn eða þessir hálærðu höfðingjar, þykja við vera heimskingjar og lítils virði, trúarníðingar og afhrák og hreinsun þess lands er þeir fara úr, og margir kölluðu mig eða okkur Mormónasauði, enn það er og verður gott að vera í sauða hópnum. Jesus segir, sauðunum mun hann skipa á hægri hlið, enn höfrunum á vinstri, Guði sje lof að hann hefur leitt mig í sauðahópinn, ólærðann, og lítils metinn af sumum. Hvað ætli þessir lærðu höfðingjar trúi eða skilji það sem Páll segir í fyrra brjefi til Korintumann, 1 og 2 kap. «jeg er hræddur um að þeir sjeu blessa á þeim», þar sem þeir eru búnir að læra í 2 skólum latinuskólanum, prestaskólanum og háskólanum í Höfn, hvað læra þeir í skólanum? svar: þeir læra mörg tungumál, heimspeki, eðlisfræði, og mart fleira því um líkt, veraldlegt, er það nokkuð til sáluhjálpar, eða til þess að þeir geti leitt fólkið á þann rjetta og þraunga veg sem til lífsins leiðir? nei, þá kemur heim sem Páll segir í 1 kap. v. 19, «því skrifað er, jeg víl að engu gera spekinganna speki, og ónýta viturleik hinna vitru» í 20 v. «hefur Guð ekki gjört speki þessa heims að heimsku, jeg get sár vorkennt höfðingunum, ef að latínuskóla lærdómurinn blindar þá svo mikið, að þeir komast ekki inn í himnarika, mjer er mjög vel við marga af þeim, er jeg þekkti, þeir voru mjer mikið góðir og skemtilegir, jeg skerst og kemst við í mínu hjárta, af því að jeg veit, að þeir eru óskírðir þeirri rjettu skírn, jeg skyldi eyða minum peningum inn að skirtunni, til þess að fara til Íslands, og

tala um fyrir þeim ef þeir kynnu að trúa mjer, með að ráðleggja þeim að láta skíra sig, því það er aðalatriðið, þá skyldi jeg vera glaður og ánægður, ef jeg geti komið þeim til að trúa og skírast, og þækti það margfalt skemtilegra og betra, enn þó jeg ætti margar miljónir krónur, enn því er æ ver og miður, að jeg er hræddur um, að það sje ómögulegt fyrir nokkurn mann, að umvenda ykkur, af því þið treystið svo staðfastlega á ykkar ungbarns skírn og staðfestingu; enn trúið þið mjer, hún svíkur ykkur, þar er engin efi á, það er áreiðanleg vissa, enn þó þið viljið ekki trúa mjer, þá vil jeg áminna ykkur um að trúa frelsarans orðum hjá Markúsi í 16 kap. v. 16. «sá sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, enn sá sem ekki trúir, mun fordæmast». Enn ef þið viljið ekki trúa þessum orðum og forsmáið þau, með því að hlyða þeim ekki, og viljið heldur hlyða mannaboðum, þá hugleiðið hvað hann segir við ykkur á síðasta degi hjá Lúkasi í 9 kap. v. 26, «hver sem lætur sjer mínkun þykja að mjer og mínum orðum, að þeim mun og mansins syni mínkun þykja, þegar hann kemur í dýrð sinni og föðursins og heilagra engla. Allir mega samt til nauðugir viljugir, að trúa því, að dauðanum og dóminum kemur, þó það sje, og verður hræðilegt fyrir þá sem fordæmast, og ekki vildu trúa og skírast; hvað verður sagt við þá fordæmdu? Jesus segir frá því sjálfur hjá Mattheum 25. kap. v. 41. «Farið frá mjer bölvaðir í þann eilífa eld, sem fyrirbúinn er djöflinum og hans árum», þetta er óttaleg orð, sem allir ættu að forðast; jeg er viss um að þegar þeir koma að helvíti og fara úti eldinn, þá mundi sá, eður sá, verða feginn að láta dífa sjer ofan í kalt vatn, fá augnablik, til að fá að snúa aptur, og komast í himnaríki, og vildu gefa til þess alla sína aleigu, þó það skipti miljónum króna, enn jeg er viss um að þaug umskipti fást ekki þá; því er betra og

hyggilegra að gá að sjer, hjer í náðartímanum, eins og síra Hallgrímur segir í sálm. 8. «Ef jeg þá tíð sem Guð mjer gaf, gálaus forsoma næði, Drottins tími þá tekur af, tvímælin öll í bræði».

Hvað verður sagt við þá rjettrúuðu? Jesus segir það sjálfur hjá sama í 25 kap. v. 34. «Þá mun konungurinn segja við þá sem eru honum til hægri hliðar, komið þjer ástvinir míns föðurs og eignist það ríki sem yður er fyrirbúið frá upphafi veraldar.» Þetta eru gleðileg orð sem allir ættu að kappkosta að fá að heyra við sig töluð á síðasta degi, enginn mun hafa þókstofvel hafa gjört, þegar að dómurinn kemur, þá duga engar viðbárur, ekki lýgi nje spott, ekki forakt nje fyrirlitning, ekki stolt nje ríkdómur, og ekki mannasetninga vani. Dómarinn veit alt, hann þarf enginn vitni, þá fellur úrskurður eptir sök, og sannast það þar, sem Hallgrímur segir (eins og öll hans orð) í Passíus. 15, v. 14: «Mjer er sem í eyrum hljómi, úrskurðnr Drottins sá, árla á efsta dómi, upp þegar dauðir stá, afsökun ei mun stoða, andsvör nje spurningar, sá stendur víst í voða, sem verður sekur þar.»

15 v. «Hjer er nú kostur að heyra, herrann talandi í náð, opni Jesus mitt eyra, svo að því jeg fengi gáð, hógvær vors bata bíður, blessaður þessa tíð, annars heims er hann stríður, öllum forhertum lýð».

Jeg vil ráðleggja ykkur að hlýða Hallgrími, því jeg segi ykkur dagsatt, að nú er verið að boða þann eilífa náðarboðskap umallan heim, biðjið herrann um vísdóm, svo þið sjatið það rjetta, frá því ránga, því nú er komið á 12 stundu tímans, þó þið hugsið það ekki, enn jeg segi ykkur það satt.

Rjett aður enn jeg fór, var jeg við kirku hja einum presti og var þá guðspjallið, um þá miklu kvöldmáltið, 2. s.d. tri nitatis., um þá sem boðnir voru, og ekki vildu þigga hana, og nú er verið að bjóða fólki um allann

heim, og þeir semsendir eru, eru spöttaðir fyrirlitnir og forðæmdir af flestum, og ekki nema einstaka menn sem þiga bóðið, fátækir og litils metnir, eptir embætti inni stofu, sagdi jeg presti eins og mjer fanst vera, að hann hefði lagt so ágjætlega vel útaf guðspjallinn, að jeg gat þar ekkert úta sett, enn jeg spurði hann að einu spursmáli, úr guðspjallinu, að hvaða hús það mundi vera sem fólkið atti að safnast til, hann svaraði og sagdi, að það væri þar sem rjettkristnir kjæmi samann, jeg seigi, hann nefnir hús, og hann vill að það verði fult af fólki, þá gjella soknarbændur margir við og segja hlæjandi. Eyrikur er að meina til hússins sem mormónar eru að bigga handa guði, eins og nókkur madur sje svo vitlöis að trúa þvi, að gud muni koma í það hús, sem með höndum er gjört. Þá sagði jeg, hafið þið ekki lesið, þegar Jesus fór inni Jerusalems musteri og rakút þá er seldu og keipta þar inni, og hann sagdi gjörið ekki hús föður mins að ræninga bæli, með höndum var það gjört. Þá datt niður í þeim, og veru þá svaranna þrótnir eins og vant er. Því mormónar eiga hægt með að gjöra alla orðlöisa, af hvuriu er það, af því mormónar standa á bjargi, enn hinir á sandi, presturinn og jeg, vorum svo einir baðir inni stófu, og þá sagði jeg við hann, heldurdu nú virkilega að ikkar luter ska trú sje reitt og sönn, hann sagði nei, og enn spurdi jeg hann, hvor skirninn helldurðu nú, að sje rjettari, ykkar eða mormóna, hann sagdi, jeg vil halda að mormóna skirn sje rjettari, presturinn er gafaður vel og stiltur og vorum við margann gang búnir áður að tala um trúarbrögðinn, og tók hann altaf sönsum enn jeg vil ekki greina hans nafn her, því jeg veit ekki nema biskup og profastur taki fyrir að gera honum áhrifur, og svæfa hann aptur, ef þeir hjeldu að hann mundi ætla að vakna, enn jeg vil óska að hann vaknaði betur, og gjætti að sinni sáluhjalp, svo að það sannaðist ekki á honum sem Hall-

grím segir í 4. salm. Enn í heimskunni svo jeg svaf, sjaldann mig neittað slíku gaf, við annann prest talaði jeg nokkur orð um mormóna trú, og ætlaði jeg að fara að útþiða fyrir honum úr Nýatestamentinu, hann beiddi mig með móð, að fara ekki að predika yfir sjer, jeg vil ekki heira það, jeg þagnaði, og hugsaði með mjer, markið hans malkusar er á þessum, Heirn er þeim hægri sljó.

Þann 3 prest talaði jeg við um mormóna trú, því nær í 2 kl. meðhjalpari hans var með honum, og reri vel á borðið hans, til að halda í hórfinn með presti, þar var ekki þejandi krókurinn, prestur gek í kringum mig með reiðða svipuna, honum mun hafa þókt að alt þirti við að hafa, að ekki ræki, hann sagði, að prestverk væri eins vel þoknanleg fyrir guði, þó það væri manna bóð, af presturinn gerði það í goðri meiningu og af góðum anða, jeg sagdi nei, þú vefeingir og mótmælit þá Frelsarans og Esaias orðum, er standa hja Matheum í 15. kp. v. 7—9, og hja Markúsi í 7 kp. v. 6—7, hann svaradi: Lítlu upp á þettað, og eptir mikið samtal með skírnina og fleira, fór hann að vefeinga Nýatestamentið að það væri sannleikur, hann sagðist ekki hafa fullkomna vissu fyrir því, að það væri sannleikur, það hafi farið svo margra á milli, síðann á frelsarans dögum, og þókti mjer þetta ómerkileg svör af presti, og skildum með það, og hjelt hvór sinni meiningu enn herran veit hvor rjettari var.

Líka talaði jeg við einn skólakennarann í Reykjavík, um mormóna trú, hann sagðist hata og fórsmá alla mormóna, jeg sagði að það gerði þeim ekkert til, því að hann yrði ekki þeirra dómari á síðasta degi, og þá er jeg fór að tala við hann um frelsarans orð, þá sagði hann, hvað á fjas, og um leið og við skildum, lófaði hann, að hann skildi skirpa á alla mormóna á síðasta degi, þessi órð kalla jeg fullkomið hatur, og það að marki, að hann ætlar að deya og rísa upp með hatrinu

(hann hefur nóg að gjöra þá, því mormónar eru nú 160,000 það verður ekki stór hrakinn á þeim seinæsta, því jeg er viss um, að honum verður þá orðið þurt í munni, og er óvist að hann fái þá nokkuð til að væta tungu sina), þetta sagði kennari skólans, þetta munn vera kristileg órd og húgsanir, þetta hugarfar mun vera guði þóknanlegt, þettað mun vera sá maður sem er á rjettum vegi til eýlífs lífs og gott fyrir ungðóminn eða skóla sveinana að læra af, að elska naungann og virða. Enn Hallgrímur segir í salm. 11. v. 15.

«Opt má af máli þekka, manninn hver helzt hann er, sig mun fyrst sjálfann blekka, sá með lastmælgi fer, góður af giedi hreinu, góðorður reinist víst, enn fullur af illu einu illyrðinn sparar síst», hann bölvaði þegar við vorum að tala saman, enn jeg var að banna honum það, enn hann sagði, að hann væri ekki of hvitur til þess, jeg sagði hann of svartann til þess. Hallgrímur segir, ætið kann illa að skarta, á tungu og vörum þín, nafnið svikarans svarta og svo fr. v.

Þegar jeg var að kveðja kunninga mína, sagði èirn við mig, jeg sje þig nú í seinasta sinni kunningi, jeg segi, máske þú komir á eptir mjer til sýon, hann hvað nei við, jeg sagði, ef mormónar koma aptur til Íslands, og fara að predika yfir þjer, þá máskie að þú trúir sannleikanum, og komir, hann segir, jeg skal þá stínga fingrunum í eyrunn, svo jeg heyri ekki neitt, jeg sagði «Á guðs óvini alla, einkenni slíkt er sett, heyrn er þeim hægri slió, vinstri hlust heillri halda, háð og spelni margfalda, nóg geta numið þó.»

Hann segir, þá svika prestannir mig, og ljúga að mjer, með að lúterska trúinn sje rjett, jeg segi: «Liðsemd prestannir lögðu, litla sem von var að, harðlindir honum sögðu, hvað eigum vjer með það, þu mátt eirn sjá um þig, og þína sálar velferð, hann gekk þeigandi í búrta, og með það skildum við, það skildi enginn maður

láta sjer detta í hug, að kenna prestunum um sína sálartöpun, það er líkast eins og þegar. Efa, bar uppa órminn sók, hun hlýddi ekki guðs bóði, og varð dauða sek, af því hun trúði lýginni úr satan, betur enn því sem guð bauð henni, satan laugheldur ekki öllu, að henni, hann sagði henni sumt satt, hann sagði, þið munuð verða eins og Guð, í að þekkja gott og.ilt. Prestannir skrökva heldur ekki öllu, þeir seiga, sumt satt enn hvert það er til sáluhjálpar er þeir ræða og kenna, sja þeir og fólkið seirna meir, eins og jeg sagði, þarf enginn að vera þrælbundinn við prestana, hvað sem þeir sega, það má hver maður trúa og hlýda því er hann vill, því trúarfrelsið er lögtekið, Guð hefur svo tilskikkað, nú á síðustu tímum, svo að enginn geti barið því við, að þeim hafi verið haldið nauðugum með laga banni, að þeir þyrðu ekki að trúa og hlýða, og fara úr Babílon, til Síon. Það má hver maður nú ráða sjer sjálfur í skikkanlegann máta; prestannir munu hafa fulti fangi að fórsvara sin verk, þó almúginn fari ekki að klaga þá fyrir svik og lýgi á síðasta degi, jeg vil ráðlegg öllum að gá að sannleikanum í Guðs orði, hvar fyrir sig, sem fyrst, á meðann náðartíminn er, og treysta ekki of mikið, á alt sem prestar og höfðingar sega.

Máske að lesaranum þyki að jeg sega nóg um höfðingana, enn jeg vil aðvara þig, með því sem Hallgrímur segir í salm. 22. v. 8.

«Veraldar dæminn varast skalt, vogaðu ekki að gjöra það alt, sem höfðingarnir nú hafast að, þó heimurinn kalli loflegt það, ef blindur leiðir blindann hjer báðum þeim hætt við falli er.»

Þó þið máske ekki trúið mjer, þá skyldi hver maður gefa því gætur, sem Hallgrímur segir, það er alt sannleiki, og bestu aðvaranir og ráðleggingar, fyrir tíma, og eylifð, hann var Lúters trúar maður, og guð hafði gefið honum þá anðagipt sem ber af öllum Íslands

mönnum, og Passíusalmannir þó helzt í heiðri hafðir, fyrir þann hjartnæma sannleika sem í þeim er, jeg vil sega þjer lesari minn, hvað jeg fór með til Utah af bókum, Passiu salmana, miðvikudags predikanir; og út af sjó orðum krists eptir Jón Þorkjelsson, viððalín Nýatestamentið, og Nýusalmabókina, af þessum öllum bókum halda mormónar mikið. Íslenzka fólkið hjer í spanisfórk sem eru liðulega 70 manns, kjemur samann á hverjum sunnudegi, kl. 2 eptir m. d., í eitt hús til embættis, til þess að lofa guð og vegsama með saungum og predikunum, og er sungið altaf í Passíusalmunum, og bestu sálmana úr Nýusalmabokinni, því flestir komu með þessar bækur að heimann, því að þær samstemma okkar trúar lærdómi, helst þó Nýatestamenti, og Hallgríms Pjeturs sónar orð, og því sýtjera jeg svo opt til hans órða, af því þaug sannast öll bæði um tíma og eilífð, þetta mun þjer ekki þýka trúlegt lesari minn, að þessar bækur sjeu í afhaldi hjer, þar sem þú, heyrir ekki um annað talað enn um mormóna villunu og sumstaðar er hún kölluð pest, og höfuðprestannir sumir á Íslandi, eru að gefa út prentaðar ræður til að svívirða hana, og tilað hræða fólkið með henni, eins og börn eru hrædd stundum með forynjum, jeg var sona, eins og þú, í 30 ár, er jeg heyrði um hana dæmt, sem villú lærðóm, og hugsaði jeg að það væri satt, enn þegar lóksins að jeg fór að higgja betur að henni, þá fanst mjer annað, eins og þú nú ert búinn að heira hjer að frámann.

Margir af mínum kunningjum ráðlögðu mjer að kaupa eða, að leiga veitingahús í Reykjavík, því mjer stóðu þau til boða, eða að kaupa mjer jörð fyrir mína peninga, heldur enn að fleygja þeim í ýmsar þjóðir á þessum langa vegi, til þess eð komast í villuflokk Mormóna, enn jeg ljet þessar ráðleggingar inn um annað eyrað og út um hitt, og gaf því engan gaum, því að jeg var þá orðinn svo umbreyttur, að jeg hugsaði mikið

meira nm mína sáluhjálp, enn þann tímanlega og forgengilega auð, sem jeg hafði þó mikið elskað í veröldinni, og margþakkaði Guði fyrir að jeg átti peninga handa mjer og mínum, til að komast til Síon, jeg var og er, mikið ánægðari, að eyða þēim til þess, heldur enn nokkurs annars; jeg trúi því sem Jesus segir við Pjetur, hjā Markusi í 10 kap. v. 28—31. Þá tók Pejtur svo til orða: «Vjer höfum yfirgefið alt og fylgt þjer», Jesus svaraði og sagði: «að hver sem yfirgæfi alt, sín eður náðarboðskaparins vegna, skyldi fá hundraðfalt aptur,» heimili, bræður, systur, mæður, börn og fasteign, og hjer á ofan í öðrum heimi eilíft líf. Er þetta ekki gleðileg og dýrðleg borgun, haldið þið, að hann muni ekki efna það? jú, vissulega víst, hans orð bregðast ekki.

---

## Um ferð mína frá Islandi til Spanishfork í Ameríku.

Kvöldið þann 8. júlí 1881, fór jeg um borð í skipið Camoens, hesta flutningaskip Kökkels, eptir að jeg með stríði, handalögmáli og þrengingu nokkri, á sál og líkama, að verja dótturson minn 14 mánaða gamlann, fyrir 10 frískum karlmönnum úr Reykjavík, er ætluðu að ráðast á hana, og rífa barnið úr fangi hennar, eptir skipun barnsföðurs hennar, sem þá vildi vera það, en vildi ekki meðganga hann nýfæddann, jeg sá þá enginn ráð til að verja barnið fyrir þessum herflokk, nema jeg beiddi Guð, eins og jeg hafði vit á, að haga því svo til, að þeir næðu ekki barninu, og hann bænheyrði mig um það, að hún komst um borð með barnið og hingað, og þykir vera mjög efnilegur. Við

vorum eð tölu 24, 8 karlmenn, 10 kvennmenn, 6 börn, öll fyrir innan 8 ára, og eru öll hjer lifandi enn.

Skipið skreið á stað kl. 8 e. m. og vorum um sólarlag hjá Reykjanesi, þann 9. amringur á móti, kl. 12 fram af Hjörleifshöfða og þaðan tekinn bein lína til Skotlands; farið kostaði fyrir hvern fullorðinn 40 kr. enn við höfðum nógann mat.

Þann 10 var sama veður til kl. 12 þá í útsuður með storm, og kom aldan á kinnung, skipið reif sig áfram móti öldunni, og muldi sjóinn undir sig.

Þann 11. kl. 6 f. m. vorum við komnir undir Skotland vestarlega, skipið rann fram með Skotlandi allan daginn í slettsæði, allir voru þá upp á dekki í blíða veðri, að horfa upp á landið því Skotland er mjög fallegt land, og bygging glæsileg.

Þann 12. kl. 9 fm. komum við að briggunni á Grántónshöfn, og fórum við þar með alt okkar góss upp á brigguna, þar komu tollþionar að skoða okkar farangur, þeir beiddu okkur að ljuka upp kofortum, er við gjörðum strax, þeir spurðu helzt um tóbak og brennivin, jeg var með 2 vjela kofort, og er jeg var að ljuka þeim upp, kölludu þeir á marga sina Landa, er þar stöðu skamt frá, að koma og sjá læsinguna, og höfðu gaman af að sjá, þeir keiptu af meir litinn vjela stókk 36 ára gamlann fyrir 4 kronur, eptir mig smidaðann, og uppdrattar og stafa brjef eptir Ólaf son sinn, á 3 krónur, og hafði jeg ábata og gaman af skoðuninni hjá mjer, að þessu búnu, komu 2 menn með sinn hestinn hvor og vagna aptani, og tóku alt gossið í þá, og við geingum með litinn spotta að vagnatróssu og við og gossið þar inni, og so strax á stað, og þókti þeim óvönu heldur ætla að koma hreifing á, er þeir voru komnir ástað, sumt varð half hrætt fyrst í stað, af þeiri fljúgandi fart, stundum í myrkri, enn þegar það fór að venjast við, hafði það gaman af fartinni, við sátum í vögunn-

um á mjukum sóförum, og sáum mjög mart útum glúggana, við fórum frá Grantón nórðuryfir England til Liverpól, það eru 320 mil. enskrar, 80 danskar, eins langt og fjórum sinnum úr Reykjavík til Heklu, og þetta flúgum við á 8 klúkktimum og sáum mart merkilegt, helzt í einni borg af 5, er við förum í gegnum, í henni var glerhimin, yfir einu stóru stræti með so margbrótnri og indislega fallegri undirbiggingu, að vart mun nokkur fegri í heimi.

Við komum til Liverpól um kvöldið, og var ókkur ágætlega vel tekið, eins og alstaðar á allri leiðinni hvar sem við komum, þessi ferð yfir England, kostaði fyrir hvern fullorðin 10 kronur, þá er við fórum úr vögunum, var allt okkar goss látið inni hús, og læst so vandlega, og svo var okkur filt til yfir mans Dampskipalinunnar sem kölluð er Guonlina (enn þær eru margar fleirri) þessi lina flytur yfir Atlandshafið alla Mormona, og hefur 13 stór Dampskip í förum, sem eru fram og aptar árið umkring. Það stæðsta er 500 fot á leingd, 87 faðmar, siðann þeir fóru að flytja Mormona hafa þeir ekkert skip mist yfir í 20 ár. Það er eitt merkilegt, að í öngvu dagblaði eða afvisurum stendur, að Mormonar hafi verið þar á, sem Dampskip hafa farist, og ekki heldur í Járnbrautar slisum, sem eru fjaska mikil.

Þegar við komum til yfir mansins sagði hann okkur velkomna, og bauð okkur strax inni fina stófu, og so kaffe og bröð eins og hvur vildi hafa, hann spurði okkur Imsra frjetta, hann sagðist altaf hysa Mormona, því sjer væri vel við þá, þeir væri altaf skikkanlegir og vel siðaðir menn, svo lika njóta þeir Joseps Smitt, jeg þekti hann að öllu góðu í Ameríku fyrir liðugum 40 árum er jeg var þar, jeg er nú rumt 60 ugur, ekki hefi jeg tekið Mormonatrú enn þá, enn

jeg veit að hún er sú rjettasta, so feingum við bezta rúm að sofa í.

Þann 13. geingum við um borgina, að gamni okkar og kjöpá okkar ymislegt til ferðarinnar, því skipið var ekki tilbúið, við feingum þar 3 mat um daginn, eins og beztu veizlu, og vorum þar aðra nótt til, í bezta yfirlæti.

Þann 14. eptir maltið fór hann með okkur, og okkar alt goss, um borð í skipið, og fjekk okkur far brjef, kvaddi okkur svo vingjarnlega, og óskaði lukkulegrar ferðar, og þetta kóstaði allt 3 kronur, fyrir hvern mann, og var birlegt, þar í Liverpól borguðum við ált fargjaldið þaðan frá, alla leið til saltsjöstaðarins hjer, fyrir hvern mann sem er yfir 12 ára, borg 300 kronur, enn frá 5 og upp að 12 ára 150 kronur, enn frá 1 og upp að 5 ára 40 kronur, en ekkert á 1 ári, maður fær nógann og goðann mat yfir Atlanshafið, enn yfir Ameríku, verður maður að legga sjer hann sjálfur.

Litlu eptir að við vorum kominn um borð, fór skipið út úr legrinu út á stóra vatnselfu sem rennur í gegnum borgina og lagðist þar við atkeri, þá komu þar úr öllum áttum stórir gufubátar með fólk og góss í skipið allan daginn, í einum hóp komu 270 manns, úr ýmsum löndum, og daginn eptir til kl. 12, sama rennsli með fólk og góss í skipið; kl. 1 á stað út af elfunni og vestur með Englandi að norðann, daginn eptir rann skipið vestur með Írlandi að sunnan, og stoppuðum þar 1 tíma framaf borginni Klinston; þar kom dampskip úr landi, að okkur með 50 manns að fara með okkur vesturyfir hafið, ungt, og sumt fjarska gamalt, ein kerling var borin í stólnum af 4 mönnum upp á okkar skip, var svo haldið vestur á það stóra Atlanzhaf, var þá lítill kaldi á móti, var þá tekinn stefna, lítið fyrir norðan miðaptanstað.

---

## Um skip og meun.

---

Skipið heitir Nevada, og er á lengd, 350 fet 58 faðmar, á vídd 50 fet, 8 faðmar, það stóð í sjó 22 fet, borðhæð ofan sjó 27 fet, og ber 2000 tons; það er járnskip fjarskalega sterkt, og líka prýðilegt, það er þrídekkað og er ekkert af góssi á þeim, alt það skelfingar góss undir því neðsta dekki maskinann stór og mikilfeng, upp úr henni stóðu 2 járnboltar, 4 álna lángir, og digrir sem strokkur, og gengu þeir upp og niður með kasti, eins og þeir væru ekki þyngri enn fýsisveppur; dekkið er sumstaðar steinlagt, allar rár og möstur klædd með járn, skipið æðir áfram með mikilli fart, þó það sje stormur og stórsjór á móti, og kastar frá sjer sjónum; því er stýrt með maskinu, og þarf ekki meiri átök enn liðlegt hesputrje.

Fólk á skipinu var 590 manns, 490 farþegjar, 100 fylgði skipinu, og alt þetta fólk hafði 6 ýmileg trúarbrögð, og annaðhvort hefur einn trúarflokkurinn verið rjettur á trúnni ellegar enginn. Frelsarinn segir að það sje ekki nema einn vegur til eilífs lífs og hann þröngur; jeg hef ekki meiri orð um það nú, 40 manns voru á fyrstu káetu, er ætluðu til Nýju Jórvík vestur yfir Atlanzhaf, enn þeir verða að borga fyrir mat og rúm á hverjum degi 40 krónur, og mun ykkur þykja það ótrúlega mikið, enn þar er ekki á borðum tálkn og söl og bræðingur við, í 12 daga tultast úr buddunni 480 krónur vestur yfir sundið.

Á annari káetu voru 70 manns, og áttu þeir að gjálda fyrir rúm og mat 144 krónur. Á þriðju káetu 380 manns, og þar vorum við Íslendingar og fór fullvel um okkur; við fengum þrisvar á dag nóg af hveitibrauði og kexi, kjöti og kartöflum, smjöri, kaffi og the,

stundum graut með sírópi út á, þetta þókti okkur nú viðunanlegt, og þurfa ekki að borga fyrir á parti; við láum við okkar rúmföt sjálf, rúmin voru útvið enn borð og bekkir á miðju dekki, í 15 faðma löngum sal. A skipinu var vershús, sjúkrahús, tukthús; skipmenn ljeku ýmsa leiki á hverjum degi til skemtunar, upp á efsta dekki, á hverjum degi er öllum skipað upp á dekk einn klukkutíma, þá eru sópuð öll verelse, og svo sáldrað þuru sagi um alt gólfið, eitt barn úr Írlandi dó á hafinu og var látið í poka og kastað fyrir borð.

Þann 26 fæddi ein Íslenzk kona 2 börn, dreng og stúlku, og gekk það fljótt og vel, alt með beztu heilsu, hún ól þau á sjúkrahúsinu, og var þar mjög vel hjúkrað að henni af lækni og skipsjómfrúnni. Mormónar blessuðu yfir börnin, og gefið nafn, kafteinnin hjet Tómás, drengurinn hjet Tómás, Halldór, Atlante, enn hún Victoria Nevada.

Þann 27. kl. 3 e. m. sáum við Ameríku, og komum inn á höfn í Nýju Jórvík um kvöldið, og voru allir á skipunu um nóttina, vorum við þá búnir að vera á hafinu 11½ dag, og fengum altaf blíðveður, einn dag storm nokkurn á móti, við vorum þar í 2 daga á vershúsi og gengum um borgina, og er hún í einu orði að segja, sú svipmesta og prýðilegasta, sem jeg hef sjeð, hún er álitinn kaupstaður mestur í heimi næst Lundúnaborg. Svo fórum við þaðan á dampvagni, því ekki er nú orðið á öðru ferðast, nema á dampskipum og dampvögnum, sem er það skemtilegasta og inndælasta sem fengist getur, þó það kosti mikið, að ferðast á þeim, þá er það bæði fljótt og indælt.

Mjer þótti togandi frá Nýju Jórvík til Saltsjóstaðar, við fórum það á átta sólarhringum, og rann þó vagninn á hverjum degi, lengri veg enn yfir endilangt Ísland, 5 mílum meira, hvern dag 365 mílur. Ísland er 90 mílur danskar á lengd, 360 enskar, 4 sólarhringana

seinni eða frá borginni Omaha (sem stendur við fljótið Missory) og til Ogdinn, fyrstu borg er maður kemur í Utha, fórum við yfir 900 og 16 brýr, stærri og minni, og 2 stöðum í gegnum fjallháls í dymmu lítinn spotta, við sáum mart merkilegt út úr vagnagluggunum dautt og lifandi, á þessari allri löngu leið; þegar við komum vestur úr fjallaklasanum, þá kemur maður fyrst í borgina Ogdinn, og svo fórum við suður með fjallinu 10 mílur danskar í Saltsjóstaðinn hann stendur þar vestan undir fjallgarði, og eru þar í kring miklar sljettur með blómlegum ökrum og slægjulöndum ofann frá fjalli og niður undir Saltsjóinn, og bygðina þar innan um. Þar er mikil og snotur bygging, með breiðum og beinum strætum, og þar rann tær vatnslækur eptir hverju stræti. Jeg skoðaði vel með þankafullri eptirtekt, musterið, sem þar er verið byggja, og er það sú merkilegasta húsbygging sem jeg hefi sjeð; það stendur 16 feta í jörð niður, og 16 feta þykkur vegguriun, úr gráhvítum marmara steini, og glittir á veggina, og var þar fjöldi manns að höggva og leggja steinana. Það mun vera húsið sem veröldin er að hæða og spotta Mormóna fyrir, að í hvaða meiningu þeir eru að byggja það, enn seinna koma sumir dagar og koma þó. Frá Saltsjóstaðnum og suður að Spanishfork eru 15 mílur danskar, og er bygðin meir og minna á öllu því svæði, með ljómandi fallegum akurlöndum; við satum í þeim skemtilegu vagnatrossum, hjer heim í hlað; er við komum hjer var okkur vel tekið. Þann 8 ágúst, þá var hjer blómlegt að sjá, korn, akrar og slægjulönd; töðuvellir voru slegnir 3 og 4 sinnum, og bezta uppskera af öllum jarðaravexti, þá var hveititunnan hjer 10 krónur. Við allir karlmenn fengum nóga vinnu á hverjum degi, ef við unnum í 10 tíma fengum við hálftunnu af hveiti, og mat eins og í beztu veizlu, kvennfólk er ekkert látið gjöra hjer það er í trjeflöskum,

nema að matreida og vaska söima, allir ungir og galmir sem af Íslandi fóru komust hingað með heilu og höldnu, nema konann min, Runveldur Runölfs dótt salaðist í miðri Ameríku, í borginni Norðplatt, úr Mislinga sóttinni, sem er að stinga ,sjer niður hjer, hún var lasinn, einn dag, og lognaðist útaf með hægð um kvöldið. Þetta sumar hafa komið 1881, til Útha 2,252 menn úr Efrópu. Mormónatrúar fólk, og af því 34 frá Íslandi, íslenzkir menn hjer eru 74, 1 af 1000 á Íslandi, og ætla að rætast frelsarans orð þar, að margir munu verða kallaðir, enn fáir útvaldir, hjer endar min ferða saga frá Íslandi til Spanichfork í Ameríku.

---

## Nokkur orð um messugjörd og imislegt fleyra.

---

Jeg hefi verið hjer opt við embætti, það biriar kl. 10, það er sungið á hlioðfæri kallmen og kvennfólk singa með, Biskupinn rædur hverir predika, hann bendir þessum og þessum að fara upp í stólinn, og stundum sjalfur, allir gjegna því, og predika allir blada löist sköruglega, og ligga 3 bækur á stolnum, Ritninginn, Nyatestamentið og Mormóns bók, og benda þeir á, að þeim beri öllum samann, um guðs bod og skipanir, sem satter, Embættið endar kl. 12½, á vetrin er hjer altaf Embættað tvisvar á hvurium sunnudegi kl. 6 e. m. seinni messann, i þessum bæ eru um 3000 mans, og er vart 4 partur af bændum eiga ekki nema eina konu, og fer sum staðar vel, og sumstadar ekki, með eirni, hinir eiga 2, 3, 4 sumstadar fer það vel, og lika sumstadar ekki. Hjer er allur fjöldi

af fólki, sem er vel vakandi um sina saluhjalp og lífir í bæn og trú og auðmikt til herrans. Lika eru hjer stöku menn innanum, sem drekka sig fulla, bölva og ragna, fara illa með skjepnur, gjalda ekki kirkunni tyund, og þikast þó sumir af þessum vera mormónar enn þetta ber vel samann við það, sem frelsarinn segir í guðspjallinu 5. s. d. eptir trínitatis, að óvinurinn hafi sáð illgresi í ákur sinn, þeir buðu honum að uppræta það, hann sagdi nei, latið hvortvegga standa til kornskjeru tímans, þá á að sórttjera, og láta sitt í hvern stað, kornhlöðuna og eldinn. Þetta sannast, og ættu allir að, hugleida, enn þeir sem illa breita hjer, eru stríkadir útúr því heilaga kirku fjelagi ef þeir ekki vilia umvenda sjer, og lifa lastvöru liferni, eins og guðsbörnum bæfir að gjöra, og lifa eptir hans boðum, af fremsta megni.

Nokkurin eptir að við kómum hjer, 29. agúst, komu hjer 5 af þeim æðstu í kirkunni, og predikudu hjer sina ræðuna hvur, og höfðu verið merkilegar, fjöldi mans hliðði á, jeg var þar, og langað mig þá mikið til, að jeg hefði getað Skilið hvað þeir sögðu, því jeg sá að hugur fildi máli, Jón Teilor sá æðsti, hafði sakt í ræðu sinni, alla Íslendinga velkomna, og beiðði fólkið í Spánichfork, að gjefa þeim, og vera þeim eins og góðir bræður og sistúr, lofa þeim að sitia fyrir vinnu og borga þeim vel, þeir væri langt að komnir, og eitt sinum peníngum til þess að komast í guðs kirku, og í guðs barna samfjelag.

Hönum næstur, Josef Smitt, brodursón þess Jósefs sem veröldinn fórðæmir fyrir ligi og falska trú, enn latum þessa framfara, frekast að sinni list) þessi Josef er einhver sá goðlegasti madur er jeg hefi sjeð. Það var eirn kabli í ræðu hans, að hann sagdi, að þeir hjer í stöðunum í Ameriku, væru nú í frekasta lagi að heimta af stjórninni, að þröingva okkur með hátursfullri frekju

enn þið skúlið ekki vera áhiggufull eða kviðinn fyrir að-förum stjórnarinnar, ef þið gjčrið og hliðið og trúið herans boðum, er hann hefur ópinn berað ókkur í gjegnum Josef Smitt sem er þessi höfuðatrið, vinna ekkert á sunnudögum, halda hann heilagann með því að lófa guð og veg sama, með heirn og lestri guðsorða ekki að drekka sig fulla, ekki að bólvá, ekki að svika hver annann eða ásælast, gjaldareidilega allar skildur bæði kirkunni og hver öðrum, og hugsa meir um það andlega og eilifa, enn það tímanlega, þið farið ekki með gúll og sílfur ófani gröfina, þegar þið verðið kallaðir uppúr gröfinni til reikningsskapar, þá verður ekki spurt að því, hvert þið attuð mikið af gúlli og sílfri, helður verður spúrt að því, hvert þú hafir hlitt herrans boðum og sjert rikur af goðum verkum, þá mun einginn þíkast hafa of vel gjört, ef þið hliðið nú þessu sem jeg hefi sakt ikkur, á samt öllum guðs bóðum sem ikkur er kent og predikað á hvirri helgi, og trúið guði og treistið og biðið hann um að vernða ókkur og varðveita fyrir illum árasum eða þreingingum stjórnarinnar, guð hefur ótal ráð að veria ókkur saklöisa og veriu löisa. Þið munið eptir um árið þegar stjórninn sendi hingað herflókkinn 1857 og það varð ókkur að mesta happi og áuðlegð, meirra enn þrigga ára uppskjera af öllu uthá landi, það var fyrir guðs vernð og miskun, að hann ljet þá ófrikis aðför falla svona, hjer enda nú þessa mans orð, hvað sem þú lesari minn dæmir um þaug, enn það bar öllum samann um sem skildu málið, að þetta hafi hann sakt í ræðunni. Í vetur kom hjer gamall stiltur og trúrækinn maður í ókkar kirku úr saltsióstaðnum, og predikadi hjer langa og snialla ræðu, og var einn kabli í henni sóleiðis, hann sagði, að nú í blöðunum úr stöðunum her í Ameríku, er nu framar veniu flokka drættir og fundir, að klaga og ákjærá ókkur mormóna fyrir stjórninni, og til færa imsar orðsakir, þó er það einna helsta og versta, forðæm-

ingar sókinn fjölkvæmið, og er likast því, þá er loptið blikar upp til óveðurs, og það getur lika ljett til aptur og gjört gott vedur, enn þið vitið bræður og sistur að það er ópinn bering í gegnum Josef Smitt, að guð hefur skíp ikkur að eiga margar konur, og þeir sem vilja hlida því, ásámt öllum hans boðum og erum hans hliðinn börn, þá er guð ókkur sem góður faðir og verndari og ef stjórninn ætlar að misþirma ókkur með ófrikis fullri aðferð, fyrir það, að við hliðum herrans boðum, þá meigi þið vera vissum, að herrann tekur í töimana, móti stjórninni, og þeir eigist só við, herrann og stjórninn, þá er auðvitað þver sigrar, og í því tröisti skulum við vera trúföst hliðinn og ókviðinn, hvurnin sem veröldinn lætur til orða eða verka, við skúlum biðia herran að stirka ókkur, og blessa okkur, og vernda okkur og varðveita, það er min bæn í Jesu nafn amen.

---

## Nokkur ord um herförina til Utha árid 1857.

---

Út af ósönnum og hatursfullum ákærum, sendi stjórnin hingað upp til Utha, 11 þúsundir manns, og völdu það friskasta lið sem þeir vissu af í hernum, og stjórnina kostaði herútbúningurinn 160 miljónir krónur. Herflokkurinn var um tvo mánuði á leiðinni, og kom hingað upp í fjöllin í nóvember, og áttu hingað tæpar tvær dagleiðir, þá dreif svo mikinn snjó eina nótt, að þeir komust ekki með hesta nje vagna, (járnbraut var enginn kominn yfir fjöllin), hvorki var hagi nje hey handa hestunum, og drápust þar á stuttum tíma í strá niður; þá er þennan manngrúa þraut fæði, fóru þeir að

höggva upp gödduð hrossin og lífa á þeim, enn þegar skrokkarnir voru þrotnir, eða þeir hasaðir á þeim og þeir sáu fyrir kvalir og máske dauða, sendu þeir þá friskustu úr liðinu hingað, (því það var styzt, annað var ekki um að tala), með gull og silfur og friðar og bónar pappíra, að hjálpa sjer í nauðum. Þá er þeir komu hjer í dalinn, var þeim vel tekið, og var þeim veitt alt sem þeir beiddu um, og þurftu með, um vorið er snjóinn tók upp, komu hjer nokkrir af þeim með friði, og fóru að rannsaka sakargiptir, er klagaðar höfðu verið fyrir stjórninni, enn þær reyndust þá allar lýgi; sumir af hermönnunum urðu hjer eptir og tóku Mormónatrú og eru hjer enn í dag. Hjer hef jeg nú sagt frá helztu atriðum þessar herfarar; þetta er satt, enn það hefur ekki verið setti blöðin, því það hefur ekki þókt sæmdarför fyrir stjórnina.

---

## Merkilegar sjónir á lopti árid 1881.

---

Þetta sumar sá fjöldi fólks hjer í suðurstöðum Ameríku, eitt kvöld eptir dagsetur, á loptinu eins og tvó herflokka eða fylkingar, með allan stríðs útbúnað, bissur, axir, boga og sverð, og glampaði á þetta í höndunum á þeim, og fólkinu sýndist að fylkingarnar vera að velta vopnunum og sýna þeim þaug, er horfðu á, niður á jörðinni, og allir þeirra tilbúrðir útvísuðu, að þeir ætluðu að fara að rjúka hvorir á aðra og stríða. Líka sá fólkið tvo engla standa skamt frá og horfa á fylkingarnar, þeir voru líka alvopnaðir í glampandi björtum skrúða. Litlu síðar sá mart fólk á sömu stöðum, um kvöld, á loptinu tvær fylkingar alvopnaðar, alt englar í skínandi

hvítum skrúða, og voru allir að dansa sorgardans, fólk sem vant er dönzum, þekkir sorgardanz frá gleðidanzi. Þessar sjónir hefur verið mjög títtrætt um í Ameríku, og þykir það vera einhvers mikils fyrirboði, eins og það líka verður; Mormónar eru ekkert hlessa á þessari sjón, þeir fara nærri hvað tímanum líður.

---

## Nokkur ord um Indiana villumenn Ameríku.

Indíanar eru hjer innanum fjöllin á ýmsum stöðum liðugar 50 þúsundir manns. Nú í haust og í vetur, hafa Indíanir verið að búa sig til einhverra stórræða; þeir eru að smíða axir, boga, og örvar, kaupa í búðum bissur, högl og púður, þeir eru að brenna elda á hæztu fjöllum á nóttum, til að gera hver öðrum vísbendingu með samtökinn; menn vita ekki neinar orsakir hjá þeim, nema litlar tvær, önnur var sú, að hjer fyrir sunnan Utha, drápu tveir menn hálfdrukknir einn Indíana; litlu síðar komu nokkrir Indíanar þangað sem morðingarnir voru, og heimtuðu þá út, enn fengu ekki, og urðu að fara svo búnir, og höfðu lofað að hefna, enn þá mundu fleiri gjalda.

Hin var sú, hjer fyrir norðan Utha, að Indíanar voru drifnir og kraktir úr einum dal, er þeir voru búnir að vera lengi í, og jafnvel búnir að fá leyfi áður hjá stjórninni að mega vera þar, enn þeir höfðu lofað með gremju að þeir skyldu reyna að ná honum dalnum aptur. Það er von þeim gremist, og reyni að bera hönd fyrir höfuð sjer, þar þeir eru drepnir, og stjórnin og Ameríkumenn halda hvorki orð nje gjörðir við þá, enn eigi veit jeg hvort þessir Indíanar eru Mormónar

eður ekki, enn það er fjöldi af þeim sem eru búnir að taka Mormóna trú, og láta skíra sig, og kvað halda vel trú sína. Máske þig langi lesari minn að heyra hvernig þeir hafa fengið aðvörun um náðarboðskapinn, er þeir hafa margir sagt frá sjálfir, að þeir hafi hlýtt fyrir, þar sem þeir hafi verið margir saman komnir í sínum híbýlum, hafi komið inn til þeirra maður, sem þeir þektu ekki, og kunni þeirra mál, og talaði við þá vingjarnlega um sama efni og Mormónar kenna og boða, sem er um Jesus Krist, og hans orð, og Guð hafi sent engil til jarðarinnar, með þann boðskap, að fólkið skyldi lifa betur, trúa og hlýða og láta skíra sig, og hann hafi ráðlagt þeim að fara til næstu Mormóna, og vísað sjer á mann, er hann til nefndi, að hafi myndugleik að skíra þá upp úr vatni, og leggja hendur yfir þá með blessun, þeir sögðust hafa látið já og svo við þessari ræðu, sumir hálftrúað, sumir á milli hluta, og sumir afleitir, svo kvaddi hann þá og fór út frá þeim, þeir sögðust hafa farið á eptir honum, að gá að, í hvaða átt hann fór, enn þegar maðurinn var farinn rjett út fyrir dyrnar, hvarf hann þeim svo að þeir sáu hann hvergi, hvorki á jörðunni nje í loptinu, og þókti þeim þetta furðu gegna, og sögðu að það hafi ekki menskur maður verið, fyrst að hann hvarf þeim svona, og hjeldu svo að þessi hafi verið sendur til þeirra, frá þeim stóra anda, sem þeir segja að sje upp í himninum, og kom þeim þá saman um, að það væri sjálfsagt að hlýða því er hann sagði, og fara sem fyrst á stað, til þess manns og bæar er hann vísaði til, að lata skíra sig, þegar þeir hafa komið, hafa mormónar ekkert vitað fyrri, enn þeir voru komnir og beiddu um að skíra sig, og sögðu frá orðum og atvikum til þess, eins og jeg hefi sagt, eptir að Mormónar hafa uppfrætt þá betur um sama efni og maðurinn, hafa þeir skírst þá, og þeir bæði karl og kona verið auðmjúk og skikkanleg, og verið skírð mörg hundruð á

dag af þeim; jeg ætla nú að eptirláta þjer lesari minn, að gizka á, eptir þinni hugarlund, hver þessi maður muni hafa verið, sem hefur verið að predika fyrir Indíönum, og sakt þeim að trú og hlýða.

Indíönum er vel við Mormóna, og gjöra þeim ekkert mein, og Mormónar heldur ekki þeim; Jóseph Smith hafði lagt ríkt á við Mormóna, að taka vel Indíunum, og gefa þeim, þegar þeir koma og svikja þá aldri í neinu, því engillinn hafi sagt sjer að Indíanar skyldu verða blóðöxi eða skjöldur fyrir Mormóna, ef stjórnin ætlaði að yfirfalla þá saklausa með ofríki og þrengingum eða heratförum, þó Indíanar sjeu liðfærri, hefur guð nóg ráð til að styrkja þá á móti stjórninni, svo að hún hafi ekkert við, og Indíanar eiga að rymka út land fyrir sig og Mormóna. Þettað hefur Jóseph Smith sagt að ætti að ske, rjett fyrir endirinn, og er ekki ólíkt að það dragist nú brádum að því, og eru nokkrar líkur til þess nú, þar sem nú liggja 50 klögunarbrjef frá ýmsum stöðum á borðinu í þingsalnum, til stjórnarinnar, uppá að þreingja að Mormónum, eða að afmá þá, og flest af þessum klögunar brjefum eru frá prestastjettinni, þeirra hljóð og höfuðprestanna tóku yfir, krossfestu þá krossfestu þá, enn stjórninn kvað þruma við, og segja og svara, að þeir komi ekki með neinar gildar og sannar ástæður á Mormóna, til þess að jeg fari að þröngva þeim að svo komnu, enn svo mega leiðir ljúga að ljúfur megi trúa, og stjórninn verði eins og Pílatus, að hún þori ekki annað enn hlýða, og fordæma okkur með raungum dómi, eptir fólksins hatursfullu ósk, enn hvað sem stjórninn gjörir, þá kvíðum Mormónar því ekkert, því við treystum og biðjum okkar föður í himninum, að vernda okkur og varðveita, frá öllum illum árásum heimsins barna, og erum jafn kátir og glaðir og ánægðir, hvert sem herran ætlar okkur að lifa eða deyja, þá erum við hans útvalin börn í Síon, hjer í fjallanna

dölum, því við höfum gefið gætur að og hlustað eptir því sem Esaías segir í 18 k. v. 3 hann segir: «Allir þjer sem jarðarkringluna byggið, og í löndunum búið, gefið gætur að þegar merkið er reist á fjöllunum, hlustið eptir þegar lúðurinn kveður við,» finnst þjer ekki þetta vera auðskilið lesari minn, eða trúir þú ekki spámanninum, þar sem hann er að aðvara þig og alla menn á jörðinni, að gefa þessu gætur, fyrir Guðs opinberun segir hann þetta öllum mönnum, því Guð vissi fyrir fram, að enginn maður hefði þá rjettu trú á jörðu, og því sendi Guð engilinn til Jóseph Smith, með þá rjettu trú, og skipaði honum að bóða hana um allan heim. Spámaðurinn segir fólkinu að gefa gætur að merkinu á fjöllunum, hvar er það merki? svar, hvergi nema hjer, sem verið er að byggja musterið eptir Guðs boði, og þar sem musterið stendur, eru 4000 og 300 feta yfir sjáfarmál, og er sú hæðsta bygð í heimi, enn luður hlóðið boðskapurinn hjeðann, og boðskapurinn hjeðann er kominn um allan heim, þó fáir vilji ljá honum eyrunn eða þankann sjer til sáluhjálpar. Trúirðu nú nokkurju af þessu lesari minn, eða því er jeg hefi sagt þjer hjer að framan um tráarbrögðinn; jeg bíst við að þið margir, helzt höfðingur segið nei, enn jeg svara: sú tíð mun koma, að þið skulið mega til, hvert þið viljið eður ekki, að við Mormónar segjum ykkur satt, eins og þeir sem þverskölluðust á Nóa dögum í 120 ár og ekki trúðu hanskenningum, enn þeir máttu til að trá því er hann sagði þeim, þegar fór að rigna, og vatnið fór að ganga uppað, og inn í bæi þeirra, og líklega flúið upp á hæðir sem gátu, og flæða svo þar uppi, þegar svo var komið, hefðu þeir orðið fegnir að trúa og fá að koma upp í Örkina enn það var þá heldur um seinan, náðartíminn var þá úti, hver hann vill ekki þegar hann má, hann fær ekki þegar hann vill.

Þeir í Sóðóma og Gómóra, foröktuða og trúða ekki

því er Lót sagði þeim, enn sú kom tíðinn að þeir máttu til að trúa því er hann sagði þeim, þegar fór að rigna yfir þá elði og brennisteini, enn þá var um seinann að trúá og hlyða, ðrottins tími þá tekur af, tvímælinn öll í bræð, það er hættulegt fyrir alla; að bíða eptir dróttins reiði, og gá ekki að sannleikanum, á meðann naðartíminn er, Lót og hans fólki var bannað að líta aptur, enn kvinna Lóts hefur ekki trúað því, að það væri so vanðlifad, að það gjörðinokkuð til, þó að hun liti við; enn hvurnig fór, hún varð að saltsteini. Hennar hugarfar hefur álmenningur nú á dögum, þeir halda að það gjöri lítið til, þo þeir hlyði ekki því rjetta og sanna, sem Guð hefur boðið að gjöra, enn þar i stað, eru ánægðir með að hlyða og brúka, það sem ýmsir menn hafa uppfundið, og ordið er aðsvæfandivana.

Og enn eitt dæmi þegar Frelsarinn var kvalinn og krossfestur og fólkið sá teikninn er skeðu við hans dauða, sem Hallgrimur segir í salm 46. v. 11. «Höfðinginn krossi herrans hjá, hjer með alt fólkið líka, jafnsnart sem þessa jarðteikn sjá, jatning þeir gjörðu slíka, sannlega hefur saklaus hann, og son Guðs verið þessi mann, brjóst slá og brátt hiem víka.»

Þá sáu þeir fyrst, hvað þeir voru búnir að gjöra það var líka mätulega sjeð, þegar að hann var dauður, þa voru úrræðinn að fólkið barði sigutann, fyrir vitleysuna, og innvortis nágandi kvöl og skömm, fyrir þessa athöfn, þessi öll dæmi ættuð þið að hafa ykkur til viðvörunar, því nu stendur líkt á, og á Nóa og Lóts dögum, því nú er komið rjett að endirnum, þeir taka eptir sem lifa.

Sá hágáfaði maður Jón Espolín, í sinni útleggingar bók, talar um endirinn, í kringum 1900, enn þó vill hann helzt halda að það verði, síðustu tímar í kringum 1890, og jeg hefi opt heyrt sagt, eptir Gunnlaugssen i Reykjavík að hann hafi opt sagt, að það mundi verða, og

yrði einhvur stór umbreyting um 1890, það er ovíst að þettað sje svo langt frá því, er nokkrir aðrir vilja meina, með tímann, enn þettað gjetur enginn jarðneskur maður sagt uppá víst, eða fullirt, að endirinn komi þa, og adeilis ekki, hedur fortekið, að það verði ekki þa. Jesus segir hja Matheum í 24 k, v. 36: «Enn þann dag og tíma veit enginn fyrir, og ekki englar á himnum, nema faðirinn einn. Jeg vil segja þjer eina sögu lesari minn, þó þu máske ekki trúir henni, heldur enn öðru er jeg segi þjer.

Vinir og trúarbræður Joseps Smitt margbeidda hann að spyrja herrann að, hvað langt væri þangað til að endirinn kæmi, enn hann var tregur til þess, enn fyrir þrábeiðni þeirra, fór hann út í skóginn og beiddist fyrir, og hann sá og heyrði engilinn, og hann svaraði og sagði við Jósep:

«Það er ekki ykkar að fá að vita það, því það fær enginn maður að vita, þann dag eður tíma, Guð hefur opinnberað þjer og ykkur allt, sem þið þurfið að vita ykkur til sáluhjálpar, enn þetta er ykkur ekki so áríðandi að vita, enn þó sagði engillinn honum tvent, sem er nokkuð því rætt, og hefur nokkurt millibil með áratímann, enn jeg skíri ekki frá þessum tveimur orðum hjer, svo að sumir af ykkur hafið þau ekki til að snúa út úr, og til að spotta og hæða með herrans opinnberingar. Jeg áminni ykkur alvarlega kæru Íslendingar, æðri sem lægri, að hugsa um ykkar sáluhjálp, betur enn þið hafið gjört hingað til, þið vitið, að það liggur fyrir ykkur öllum, annað hvort að deiga, ellegar lifa til þess síðasta dags. Sem þið margir þeir yngri lífið, eptir engilsins orðum, er hann sagði við Josep, enn þó þið viljað ekki trúa mjer eða hlíða, þá samt liklega viljið þið trúa Frelsarins orðum hjá Matteum í 24 kap., v. 44. Verið þjer því viðbúnir því mansins sonur mun koma, þegar þjer síst ætlið, hann segir í 37.

v. enn eins og dagar Noa voru, eins mun til koma mansins sonar verða, og í 39. v. Og þeir vissu ekki fyrir af, enn floðið kom og tók þá alla, eins mun og verða tilkoma mansins sonar, hugleiðið nú þessi Jesú orð, og min orð líka, þó jeg sje lítils virði.

---

## Brjef til siera Sveinbiörns Gudmundsson, í Hólti vid Eyafiöll i Rangárvallasyslu.

---

Spanish fórk dag 26. Nóv. 1881.

Heyðraði vinur ætið sæll!

Hjer með leyfi jeg mjer að skrifa þjer nokkrar línur, sem kjærum vin og velgjörara, frá því fyrst við sáunstum, og til þess við skildum, enn jeg víst ekki við að þjer þiki brjefið vinsemdarlegt, eða af góðum anda gjört enn er þó, og vil launa þjer þína goðsemd með því, að segja þjer sannleikann á rjettum rökum og bjargi hygðann, eptir minni beztu samvisku og sannfæringu, þjer til viðvörunar, vinur er sá sem til vamma segir, þó hinum vjer líki. Þann 18. Nóvember 1881 kom hjer með brjefum til Spanisfórk. Prentuð ræða eptir þig, er þú hafðir frammflútt á sinóðus í Reykjavík, síðsta sumar móti Mormonum og trú arboðun þeira, og þókti mjer, er jeg var búinn að lesa ræðuna, að blindur dæmdi um lit, og það vera tómlegur og skaðlegur ábyrgðar hlúti fyrir þig svo gamlann og greindann, að vera að skemta Herodes og hans hoffólki með því að vera að hafa langar ræðar í Kirkjum, með hatri og fyrir litningu, móti herrans bóðum og skipunum, og latið svo prenta þennann ósanna og ástæðulausa þvætting, og berast svo um allt Ísland, einmitt til þess að

verja fólkinu inngaungu í himnaríki, og er það mikill ábyrgðar hluti fyrir þig, og Helga Hálfðanar son, og vissúlega stefnir á ykkur það sem Frelsarinn segir hjá Lúkasi í 11. s., v. 52: «Vey yður þjer skriftlærðu, sem hafið hrifsað til yðar likil viskunar, sjálfir farið þjer þar ekki inn, og fyrir munið öðrum inngeingu, er þetta gótt, nej, það er ilt og tómlegt, þú frammflytur þina ræðu ástæðulaust, og á engum grúnðvelli bygða, þú tilvísar í tveimur stöðum í nýja Testamenti, og er á báðum stöðum ósatt, enn það gjetur maskje verið prentvilla. Þú talar um á 12 bls. 26 l. svivirðilega og auðvirðilega villu, er þú meinar til Mormona, þó þú hafir ekki einúrð til að nefna þá í ræðu þinni, þetta gjetur hver heimskinginn gjört af hátri og sytjerað ekkert. Þið líkist mjög höfuðprestunum í því, er þeir sögðu um Frelsarann, að hann væri vinsvelgur, og fyrir belsibúb ræki hann út djöflana, og fleira ilt, enn Jesu orð og kenningar, voru alt eins sönn og heilög, hvað sem þeir lúgu á hann. Og sama er á þessum tímum, að trúar lærdómurinn sem Mormonar bóða nú um állann heim, er allt að einu sönn og rjett og heilög, hvað sem þú eða þið dæmið um Mormona, sá tími kemur áður enn margir túgir ára liða, að þið fáið að sjá og heira hvurir sannast seiga um trúarbrögðinn.

Jeg vil ráðlegga þjer af hreinu hjarta vinur, að hugleiða að vörunar vessið hjá sjera Hallgrimi í salm. 10. s., v. 11. Þú guðs kennimann þeink um það, þar mun um siðir grenslastað, þvurninn og hvað hjer kendir, að lærisveinum mun lika spurt, sem ljet þitt gáleisi villast búrt, hugsa glögt hvar við lenðir. Þú hefur máske ekki hugleitt vessið kunningi, og vil jeg út þiða það fyrir þjer, til að vörunar. Ef þú kennir það rjetta og sanna, sem guð hefir bodið að gjöra, þá ert þu guðs kennimaður, enn ef þú kennir annað, nefnilega mannasetninga, þá ert þú sátans þjenari, eins og Pall segir í

brjefin til galatamanna 1 k., v. 8—11, hann segir: hvar sem öðruvisi kennir en jeg, er bölvaður, ef jeg væri að tala eptir manna vilð, eða að þóknast þeim, þá væri jeg ekki guðs þjón. Hallgrimur segir, að þú eða þið Prestar verðið spurðir að, hvurninn eða hvað hefur þú kent, guðs boð eða manna, ef Jesus spyr þig að, var skirnar að ferðinn sem þú brukaðir við þin sóknarbörn, boðinn af guð eða af mönnum, eins og þegar hann spurði þá æstu Presta hjá Lúkam í 20. k., v. 4, hvurt var skirn Johannesar frá himni, eða frá mönnum, svaraði mjer, þeir svöruðu, við vitum það ekki, hvuriu geturðu svarað, nema sama og þeir, jeg veit það ekki, því þú getur hvurgi sytjer að í nokkuria skript eða bók, að ykkar lúterska skirnar aðferð, sje guðs boð, það er tómlegt fyrir þann sem þikist og segist vera guðs þjenari, að geta ekki svarað frelsaranum uppa þetta spursmál, nema ef þú svarar honum í vandræðum og segir, Biskupinn þegar jeg var vigður, sagði mjer að skira sona, óvitabörn, þá segir frelsarinn. Það var ekki mitt bóð eða skipun, enn jeg gjörði þjer bóð með Mormonum, að þú skilðir lata skira þig sjalfann, og öll þin sóknarbörn, með niðurðifingar skirn, eins og jeg skipaði þeim að bóða um allann heim, og enn segir Jesus, lastu ekki hjá Matteum í 3. k., v. 16, þegar jeg ljet Johannes skira mig sjalfann, upp úr ánni Jordán, þjer og öðrum til fyrir minðunar, eða lastu ekki í Póstulanna 9. bók, 8. k., v. 38, þar sem minn lærisveirn Filipus skirði gjeldinginn, og hjá Páli í Pistlinum til hinna Hebresku, manna, í 10. k., v. 23, og latum oss að lauguðum vorum likama í hreinu vatni, og Pall sagði í Pistlinum Efesus manna 4. k., v. 5 eirn er dróttinn, ein trú, ein skirn, og jeg sagði við Nikodemus, hjá Johannesi í 3. k., v. 3—5, ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki feingið inngöngu í guðs ríki, og jeg sagði

so að allir gæti skilið, hjá Markum í 16. k., v. 16, sá sem trúir og verður skirður; mun hólpinn verða, en sá sem ekki trúir, mun fordæmast, hefurðu öingvu trúað af þessu, hvorki bókunum, nje Mormonum, hvuriu gjeturðu þá svaraði kuningi, nema að seiga eins og satt er, nej, eða þeiga, og enn fremur spyr Jesus þig, og segir, hvar eru lærisveinannir eða fólkið, sem þú varst settur yfir, og attir að leiða á þann rjetta veg, til eylifs lifs, hefurðu látið það villast búrtu, af þinu gáleisi og trúarleisi, á satans veg, af því þú trúðir ekki sannleikanum, þá gjeturðu öngvu svarað kunningi, af því þú ferð villur vegar nú í tímanum, hvar helðurðu að þú lenðir þá. Hallgrimur segir, hugsa glögt hvar við lenðir, hugsaðu nú um þettað betur enn þú hefur gjört kunningi, það er ekki litið í það varið, að gá að sannleikanum hjer í tímanum, og brúka ekki ástædulausann vana, í staðinn fyrir guðs bóð, Hallgrimur varar alla við því, í salm. 22. Sjá til min sal að siðvaninn, sist meigi villa huga þinn, fórðast þú honum að fylgja hjer, framar enn guðs orð leifir þjer, goð meining öngva gjörir stoð, gilda skál meira dróttins bóð, þú hlitur að sjá, að það eru ónitar mannasetningar sem þú kennir og brúkar, enn láttu ekki vanann, virðinguna og inntektina, blinða þig kunningi.

Þú talar opt um í ræðu þinni, hirðara og umsjónar menn, sem eiga að vaka yfir hjörðinni, og halda henni í því sanna og rjetta ljósi, og sleppa henni ekki af þeim rjetta og sanna vegi, sem við hirðarannir eða Prestannir erum á, enn jeg vil aðgjæta, hvurt þjer ber heim við sjálfann þig, og hvar þið eru með hjörðina, þú lest í handbókinni þinni, kóllettuna 3. sunnudag eptir Trinitatis, og segir:

Vjer erum allir villuráfanði sauðir, og höfum yfir gjefið hinn rjetta lifsins veg. Þetta seigið þið allir satt lútersku Prestar, og samsinnið með Mormonum og

Ritningunni, ykkar villu, því eingin skildi hugsa að þið sjeuð allir að tóna ligina, fyrir alltarinu, í öllum messu skrúðanum, ár eptir ár, þið takið öngvannunðann, og ekki sjálfa ykkur, og í þessari villu forsmái þið og fyrir litið, þá sem vilja leiða ykkur útúr villunni, á þann sanna og rjetta veg, þetta er ljótt og skaðlegt kunningi, og auminga fólkið trúir og trystir því sem þið seigið og gjörið, fyrir guðs náð og miskun sá jeg þessa ykkar villu, og gjet aldrei þakkað guði fyrir, eins og það er vert, og segi með hjartans alvöru, lóf sje guð þjer; þú lientir mjer, lífið og trúna hreina, hugleiddu það vel kunningi, sem Esaias segir í 18. k., v. 3, enn þú munt ekki marka hans órð, heldur enn annara.

Í ræðu þinni á 8 blaðsiðu neðarlega, talar þú um ofsa og ofsóknir heimsins, ef ekki er farið eptir hans vild, og er það sannleikur, enn þar hjostu nógu nærri þjer kunningi, er jeg vil segja þjer með fáum orðum. Jesus segir hjá Lúkasi í 12. k., v. 51, ætlið ekki að jeg sje kominn til að senða frið á Jörðu, nei, segi jeg yður, heldur ósamlinði, og í næsta vessi, og upp frá þessu munu 5 vera í einu húsi, allir sunðurþykkir 3 á móti 2, og 2 á móti 3, og sönnuðust þessi hans orð, vel í þinum húsum eða stófu, þá er þeir komu til þin Mormonar, Þórður og Samúel, og töluðu við þig, og Þorstein son þinn, og Gisla Björs son, um trúar brögðinn, þar voru 3 á móti 2, og 2 á móti 3, og þu nidraðir þeirra trú með mikilli freku, þar var liginn á móti sannleikanum, þar voru mannasetningar á móti guðs bóðum, þar voru rangsunnir lærdómar, á móti rjettum og sönnum, þar voru 3 í villunnar mirkri, enn 2 í sannleikans birtu, jeg veit þá hugsar og segir, jeg hafði rjett fyrir mjer, enn Mormonar rángt, enn jeg svara, nei alðeilis ekki, og svikurþú grátlega sjálfann þig, ef þú hugsar eða talar það, gaðu að hugleiddu og trúðu því er Esais, og Jesus segir, um mannasetningana hjá Matt.

í 15. k., v. 7—9, og hjá Markum í 7 k., v. 6 og 7, þeir baðir segja satt.

Í ræðu þinni á 10 blaðsiðu neðst, ert þú að dilga um, að dæmi höggórms, er þeir kitli með hóldlegar tilhneigingar, enn það er auðskilið, að þú meinar það til fjölkvæmi Mormona, sem þú og þið allir fyrir litið og fóıdæmið, að það sje viðurstigð fyrir guði, að eiga margar konur, enn við skulum skóða eitt dæmi kunningi.

Jeg er vissum að þú og þið allir, óskið eptir og hlakkið til, að fá að sitja til bórðs með Abraham, Ísaak og Jakóp, í ríki himnanna um alla eylifð, enn jeg gjet vorkent þjer og ykkur, að vera með, og umgangast þá menn, sem attu margar konur hjer niður á Jörðinni, og þær verða með þeim þar í dirðinni, hefurðu ekki lesið í Ritningunni, fyrstu Mósebók 30. k., að Abraham atti 3 konur, Jakóp 4 konur, er hjetu Lea, Rakel, Silpa og Bila, og með þessum 4um konum atti Jakóp 12 sonu, og þú nefnir þá alla með nafni, í handbókinni þinni, þá er þú Prómisjerar, Pistilinn, á Allheylagra messu, og út af þeim 12 sonum Jakóps, voru Innsiglaðar 144 þúsunðir mans, finnist þjer ekki að guð hafi blessað þessa menn, og upp hafið, og þeirra afkómenður, enn ekki fórðæmt þá og fyrir litið, er ekki sami guð og faðir okkar allra, nú sem þá, helðurðu að guð muni fordæma þá menn nú á dögum, sem eiga margar konur, ef þeir lifa með konum sinum í einungu andanðs með banði friðarins, hvuriu geturð nú svarað uppa þetta kunningi, þetta er sú vitleisa hjá þjer og ykkur, sem ekki getur bórið sig, heldur enn annað, með að fordæma okkur.

Á 5 blaðsiðu í ræðu þinni, talar þú um að þessir tímar syeu hinir hættulegustu, með vantrú og villu, og á 14 bls. um deifðarinnar og trúarleisis tíma, þetta segir þú dagsatt, aptur á 16, talar þú um ófreskur í mannlegri minð, að þeir gefi grillur um að mennirnir

hafi þurt á meiri ópinnberingu að halda, viltu vera að vefeinga það, og blinda þig og aðra með því, að guð hafi ekki þurt eða viljað leiða fólkið á þann rjetta og sanna veg, þegar guð sá að allir ráfuðu í vanþekkingar og villunar mirkri, jeg vil aðvar þig kunningi, vertu ekki so forhertur, vertu ekki so blindur og skilningslös, að guð hafi ekki af sinni miklu náð og miskun semi, sent Eingil til Jarðarinnar, og aðvarað þjóðirnar í geingum Josep Smitt, jeg er sannfærður um að það er sannleikur.

Sá gáfaði maður Jón Espólin syslumaðr, hefði hann lifað nú á dögum þá hefði hann trúað því, að guð hafi sent eingil til Jarðarinnar, sem segir í sinni merkilegu útleggingarbók, að eirn Eingill væri ókominn til Jarðarinnar enn þá, sem guð hefði lofað að senda til þjóðanna, han hefur spáð rjett, því nú er það skjeð og framm komið, þó fáir vilje trúa því, yfir vegaðu þessa Jóns bók, hún er ekki eptir Mormona saminn, þó honum beri saman við þá.

Þú talar um í ræðu þinni, að það sjeu komnar villu bækur inni landið, og meinar þú það til bókar Þorðar Diðriks sonar, Aðvörunar og sannleiksröist, hvur sem kallar hana villu bók. Sá hinn sami kallar Ritninguna og Nýatestamentid villu bækur, því hún er samann settur sannleikur úr þeim báðum, og jeg vil nefna herrann til vitnis, að hún er rjett nemd Aðvörunar og sannleiksröist, og ef þú rángfærir sannleikann og vilt gjöra hann að villu, þá ert þú eins og höfuðprestannir, eins og Hallgrímur segir í Salmia 25. v. 4. Rjett lög sem rituð finnast, rángfærðu Júðar hjer, oss ber þar á að minnast ill dæminn fórðumst vjer, dómurinn drottins er, hinn þó með heiptum klagi, og hreinann sannleik áflagi, sjái valds menn að sjer, hann segir ikkur að rang færa ekki ritningarnar, og varast þaug illu dæmi, svo þú verðir ekki fórdæmður, hann segir, hinn þó með heiptum

klagi, og hreinann sannleik áflagi, sjái valds menn að sjer, hann seigir ikkur að rangfæra ekki, ritningarnar og varast þaug illu dæmi, svo þið verðið ekki fórðæmdir hann seigir, hinn þó með heiptum klagi, hvur er það, nú, það gjeta ekki aðrir verið, enn einnaðhvert hann Belsibúp, eða Höfðingannir, eða hvórutvegga sem heimta með heipt og hátri, að áflaga sannleikann, hann seigir yfir völdunum að gá að sjer, eins og það sje ekki alt hreint hjá þeim með þettað, jeg gjet daðst að því hvað Hallgrímur seigir þettað satt, eins og alt annað er hann seigir, hann kjemar við köininn hja ikkur ekki siður enn mormónar, jeg ráðlegg þier kjæri vinur að lesa bók þorðar Diðriksson með hjartans litilæti, og eptir tekt, og þú trúir henni og hliðir, svo þú verðir ekki fórðæmður, í istu mirkrum einginn sjer, aðgreining höfðinganna, ef þú vilt fórðast þaug, istumirkur, þá hliððu bók þorðar D. s. og minum orðum, með því að láta skira þig Niðurðifingar skirn, eptir herrans bóðum, þá mundu flest af þinum sóknar bornum, gjöra það sama, enn þá yrðir þú, hátaður spóttaður og fyrirlitinn í veröldinni, enn mikill, og útvalinn guðs þjenari í himnariki, hvort er betrá, hugsadu þig um.

Jeg óska að jeg væri kominn upp á Íslandi, til að bera vitnisburð um sannleikann bæði fyrir þjer og öðrum, ef einhver fyrir guðs náð og aðstóð, kinni að trúa mjer, og kjæmist til sannleiksins viðurkjenningar, enn jeg bist við að þú seigir við mig sem só, hvað ætli þú vitir þetta betur enn jeg, eða þú gjetir leiðrjett mig, óupp fræðður almúga maður, enn jeg lærður og upplistur gamall kjennimaður, jeg vil ekki ansa þjer, þú ert ekki svara verður, þettað eru ikkar sumrá vana svör þegar þið gjetið ekki mótstaðið sannleikanum, hjá mormónar, enn jeg vil svara, hugleiððu Jesu orð, er hann seigir, Jeg þákka þjer faðir, að þú hefur ópinnberað þetta fyrir smælingum, enn hulið það fyrir spekingum

og vitringum, og þess vegna vita smælingannir betur, jeg og minir likar, heldur enn þú og þinir likar, og er þessvegna skilda min að leiðrjetta þig og aðra sem vilt fár og ekki þekka það rjetta frá því ranga, ef það væri mögulegt að þú eða þið triðuð mjer, enn jeg gjet öingvum gjefið trúna, enn það sem jeg seigi þjer, það seigi jeg öllum, sem orð min heira, Jesus seigir. Það orðið sem jeg talaði til yðar, mun fórðæma ikkur á síðasta deigi, og ef þú vilt nú ekki trúa því er jeg og þorðar bók seigir þjer, þá ábirstu þig, mitt er af. Salamon seigir 13 k. v. 13: Hver sem forsmáir heilræði, veldur sjalfum sjer glötunar, enn hvur sem óttast boð orðið, fær löin fyrir það. Að endingu brefsins vil jeg seiga þier, sögu af einum presti, hjer í stöðunum í Ameríku, hann taladi við eirn mormóna, af þeim mörgu sem hjeðann eru sendir árlega hjer um Ameríku, og trúa fjölda margir, innannum háturs mennina. Presturinn gat ekki rekið neitt af því er mormóninn sagði honum úr Ritningunni, enn hann gat rekið alt sem presturinn sagði, og þókti presti það kinlegt, því hann hefði aldrei orðið halloka fyrir neinum fyrri og skildu svo talið, ósam dóma, litlu siðar fer Prestur að fá þanka af þessu sem mormóninn sagði honum, að það mundi vera sannara sem hann segði, enn veit þó ekk uppa vist, hvor sannara segði, í þessari óvissa fer prestur eirn dag uti skoginn, og legst hja einum runna, og biður þar guð að ópinnbera sjer sannleikann, svo hann getið verið viss um sina salúhjalp, enn hann fór heim jafnvis, svo fer hann annann dag, og fastar, og það fer á sömu leið, fer heim jafnvis, og enn fer hann þriðia dag, og er hann fór að þreitast að biðia, seigir hann, þú rjettlati guð og faðir jeg vonast til að þú fórðæmir mig ekki á síðasta deigi. Þó jeg fari villur vegar, ef þú nú ekki bænheirir mig, og seigir mjer hvað sannast og rjettast er hann jós yfir sig móld og skóarlaufum, og bað af

hjartans alvöru herrann að ópinnbera sjer sánnleikann, og svo með fleirir orðum, og þá fekk hann bæði með sjón og heirn, áheirslu, og honum var sakt að hann skildi sleppa sinum ónitu og fjandlegu manna setningum, enn trúa og hliða mormónum, þeir kjendu nú um heiminn, það sanna og rjetta sem guð hefur boðið að göra, að skira alt fólk með niðurðifingar skirn, og s. frv. hann kom heim aptur til sin, glaður og ánægður, og lofaði guð fyrir sína náð og miskunsemi, og ljet skira sig straxt á eptir, og kva hafa farið að kjenna fólkinu mormónatrú, hvurninn sem heimurinn ljet, jeg vil raðlegga þier kunningi, að gjöra nú sama og þessi, því þetta er það besta og rettasta fyrir hvuru mann, og er svaladrikkur fyrir þá sem vilia vera vissir um sina saluhjalp, enn hinir fórhertu skinsemistrúar menn, vilia ekki auðmika sig, og biðia guð með barnslega hjarta, að leiða sig á þann rjetta veg, jeg enda nú, þó mart hafi jeg fleirra að benda þeir á úr Ritningunni vinur, því jeg bist við af því þú ert prestur, að þú einskis virðir og fóraktir þessar linur, enn það gleður mig tvent, fyrri og síðar, að það er sannleikur, samkvæmt herrans efanngilium, sem jeg skrifa þier, og annað það, að þú getur ekki borið á móti því á sidasta deig, að þú eða þið, hafið ekki feingið aðvörum frá mjer, og vil marg þakka guði fyrir að hann hefur upp vakið mig, og kallað mig um elleft stundu tímans, í sinn vingárð, til að útbreida sannleikann um mitt föðurland á samt brodir þorði Diðriks sini, enda jeg svo með kjærri kveðin, og óska af hjarta, að þú vildir leita að veginum, sem til lifsins liggur, svo þú verðir ekki eirn af þeim sem ekki finna hann, enn Jesus seigir að þeir verði fáir sem finni hann, af hvuriu finnur ekki fólkið hann, svar, af því það vill ekki gá vel að honum, og bidia guð að leiða sig á hann, þessar linur bið jeg þig að hugleiða.

Vinsamlegast E. Ólafsson.

# Nokkur ord um Altaris adferd her.

Jeg vil seiga þier lesari minn, hvurninn það fram fer hjer. Eptir tvo sálma sunga og bænagjörð er látið á Altarið hvit leirskal með hveiti bröiðum löingum og mjóvum, og þar hja 4 talerkar hvitir svo bendir Biskupinn einhvurium 4 að gjöra þá áthöfn, þeir ganga að Altarinu, og brjóta bróiðið niður á talerkana, og er hver biti álika og stór rússina, svo fellur eirn af þeim á bæði knie, og blessar yfir bröiðið, með svo feldum orðum að það sje til endurminningar, og elskúlegs sáttmála við frelsarann, að því búnu, tekur sinn talerkinn hver þeirra og bera fyrir hvurn mánn í kirkunni, og tekur hver madur sjalfur eirn móla, um leid og fólkið rjettir talerkinn hver að öðrum, það er að segja þeir sem vilja, það eru allir sjálfráðir, karl eða kona; að því búnu er látið á altarið 4 könnur og 4 silfurbikarar með hreinu vatni og svo blessar einn yfir það, að það sje til minningar og sáttmála við frelsarann, svo fer hver þeira með könnu og bikari hvorri hendi, og hellir á bikarinn úr könnunni þegar hann tæmist, svo rjettír hver öðrum bikarinn, og bergja á honum um leið, þeir sem vilja, allir sitja kyrir í sínu sæti, á meðann þetta fram fer, er þögn, hverki sungið nje predikað. Nú hefi jeg sagt þjer, hvernig það framm fer hjá Mormónum, og getið þið nú borið það saman við Nýjatestamentið.

Það stendur skrifað hjá þremur postulum að Jesus hafi brotið brauðið og sagði: takið og etið, það er auðskilið að þeir hafa tekið það sjálfir.

Og hjá Markusi í 14 kap. v. 23 stendur skrifað. «Síðan tók hann kaleikinn gjörði Guði þakkir, og fjekk þeim hann, og þeir drukku allir af honum, og hann sagði að þetta væri nýr sáttmáli í sína minningu,» er

þessi frelsarans aðferð lík þeirri lúthersku aðferð, nei, aldeilis ekki, hverki til orða nje verka, Mormónar segja ekki sannarlegt holð, og sannarlegt bloð, eins og þið. Svoddan vandræða ósannindi, sem allir geta sjeð, sem vilja gá að því. Þið segið að Mormónar hafi vatn staðinn 'fyrir vín, og er það satt, enn hefir ekki Guð skapað vatnið, er ekki mestpart vatn í öllu víni, bætir vínið meira vondar hugrenningar eður vondan mann, heldur enn vatnið, nei, kemur ekki mest upp á hugarfarið fyrir, herranum, þegar farið er til altaris, já vissulega. Frelsarinn talar mikið um sitt hold og blóð, sjá Jóhannesi í 6 k. og það svo mikið í 52 v. að Gyðingar þráttuðu um það, og lærisveinarnir 60 v. sögðu, hörð er þessi ræða, hver getur hlýtt á hana, í 61 v. segir Jesus: «hneyxlar yður þetta.» svo útþýðir hann þetta fyrir þeim í 63 v. og segir: «Andinn er það sem lifgar, holdið gagnar til enskis, þaug orð er jeg tala til yðar, þaug orð eru 'andi og líf.» Þarna sjái þið, ef þið vilduð gá að því, hvert brauðið og vínið, hreinsar ykkur af nokkri synd, nei, alldelis ekki. Það stendur í altaris sakramentinu í spurningakverinu mínu 4 grein. «Hvernig fær líkamleg berging afrekað svo mikla hluti», svar: berging brauðs og víns, afrekar það aungann máta, heldur orðinn sem hjer standa, enn þó segi þið, þetta er sannur líkami og sannarlegt blóð, til syndanna fyrirgefningar; að þessu verðið þið að gá betur, því þessi vitleysa getur ekki borið sig, og þið eigið víst ómögulegt með að forsvara þessa athöfn á síðasta degi, og sannast það sem Jón Vídalín segir í postilunni. «Svo reka menn þetta blinda fje inn að drottins altari, til að eta og drekka sjálfum sjer dóm, þetta hljótið þið að sjá, að er vitleysa, og svikanet fyrir fólkið og ykkur prestar, og þó gjörið þið þetta alla ykkar æfi, og sumir prestar hafa sagt, að altarisgangan væri vitleysa, hvað segir síra Hallgrímur um þetta í

sálm. 26, v. 9. «Þeim mun ei plágann þverra, sem þrjóskast í synda rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þekkir síns herra, enn þó gjörir þvert á mót.

---

## Nokkur ord um skirnina.

Jeg hefi hvergi sjeð eptir presta, í ræðum þeirra nje ritum, talað um undirstöðu lúthersku skírnarinnar, og þykir mjer það nokkuð kinlegt, jeg verð að leyfa mjer að spyrja ykkur að því Biskup, prófastar og prestar, svar, við getum ekkert sagt, nema það er gamall vani, eða hafa Danakonungar skipað ykkur að skíra svona nei, enginn, gjörði Lúther það, nei, það er þvert á móti, hann segir hana ónýtan hjegóma, það stendur eptir Lúther, í svenskri húslestrabók, sunnudaginn 23 eptir Trinitatis, hann segir, það má eins vel taka trjestaur, og nudda vatnsvotri hendi um endann á honum, því barnið hefir enga trú, og þekkir ekki ilt frá góðu, og ekki syndgað, þetta segir Luther um skírnaraðferðina ykkar, og segir hann það dagsatt. Það stendur í spurningakverinu mínu, á 17 blaðsíðu í sjöunda kapitulanum, grein um skírnina, hún er svona:

Í heitari löndunum má án heilspillirs, dífa þeim niður í vatn, sem skírast eiga, enn hjer í þessum kaldari löndum verða menn, heilsunnar vegna, að láta sjer lynda, að ausa yfir þá vatni, eins og haft var í hinni fyrstu kristni, þegar einhver var skírður á sinni sóttarsæng. Þessi grein fer alveg um koll, með ykkar skírnaraðferð, því hún útvísar ósannindi ogvitleysur; eru ekki víða laugar á landinu til að skíra upp úr, ein er skamt frá Reykjavík, og mikið víðar, er ekki nógu volt vatnið

á sumarinn í hitanum, jú, þetta eru tómar viðbárur, eða að láta sjer lynda, að ausa yfir þá vatni, það er auðheyrt, að það á aldeilis ekki að skíra svo, þó það sje gjört, eða hvar stendur það í fyrstu kristni, eða í Nýja testamentinu, að það hafi verið ausið vatni yfir menn á sóttarsæng, hvergi.

Jeg hefi opt heyrt að ef lútherskur perstur skírir barn hempulaus, þá skyldi hann tapa embættinu, hvernig á jeg að skilja þetta, er presturinn eins og nyt fyrir utann kjárna, og ský fyrir utann regn, er allur helgidómurinn fyrir Guð í hempunni, er þá hempan ekki eins og nokkurs konar afguð, ef að mannanna bænir eru óheyrðar og ónýtar fyrir Guði, nema í hempunni, hinir mættu þá efast um, að Guð bænheyrð þá, sem ekki eiga hana, einhver ykkar segir, við berum Arons skrúða, það getur satt verið, enn hver hefur skipað ykkur það, enginn, nema ef það skyldi vera páfinn, hann og kardínálar eru svona búnir, jeg hefi sjeð þeirra búning, ef ykkur finnst að búningurinn eða hempann gjöri mest um fyrir Guði' þá ætti bezt við fyrir prestana að búa sig eins og Jóhannes skírari. Jesus segir að hann sje sá mesti af konu fæddur, enn jeg er hræddur um að ykkur líki ekki hans búningur, það stendur hjá Mattheum í 3 v. 4. «Enn sjálfur bar Jóhannes klæðnað af úlfalda hárum, og hafði leðurbelti um sínar lendar,» þó fór Jesus til hans að skírast þó hann væri svona búinn. Það finnst hvergi í Nýjatestamentinu, að frelsarinn hafi sagt lærisveinum sínum að hafa með sjer hempu eða Arons skrúða til að vera í, á meðan þeir voru að skíra fólkið. Enn það stendur prentað í Nýjatestamentinu, hjá Mattheus í 10 kap. v 8, að Jesus sagði við lærisveinana, þegar hann sendi þá út, til að predika sannleikann og herrans evangelium, þjer hafið fengið þetta kauplaust, gjörið það og kauplaust, það er ekki herrans boð að selja guðsorð fyrir peninga; jeg er hræddur um að

launinn verði lítil síðar meir, hjá þeim sem selja það eins og aðra vöru, og allra helzt ef þad er rangfært og ósatt, eins og svikin vara. Jeg vil ráðleggja ykkur kæru landar og prestar, að gá að þessu, þó ykkur máske þyki það óþarfi, og ofseint að gáð, enn betra er seint enn aldri, ef ykkar sálarvelferð skyldi vera í tapi, ef ekki er aðgjört hjer í tímanum, enn ykkur er hálf vorkun, því þið verðið ad ganga frá sjálfum ykkur, og sleppa vananum, inntektinni og virðingunni, enn þetta munu flestir higsta við, og svo fá þar í stað, ofsókn, forakt og hatur, enn hugleiðið þið, að það tekur þó enda, þegar þið deyið og minnist ekki þeirra mæðu fyrir fagnaðar sakir, er þið hafið áunnið ykkur með því eilífa gleði og upphefð í guðsríki um alla eilífð.

Það stendur í messusöngsbókinni ykkar í sálminum 341 v. 3. «Endurfæddur sá ekki er, af vatni og Guðs anda hjer, í guðsríki kann ekki fá, inn að ganga og það að sjá.

Aptur í spurningakverinu mínu á 20 blaðsíða í sjöunda kapitula stendur svona: «Þau börn sem deya áður enn þau hljóta skírn, koma samt í guðsríki, því Kristur hefur endurleyst þau, og þeim verður ekki tilreiknuð forsomun á skírninni.

Þarna kemur tvent, hvort á móti öðru hjá ykkur, eins og mart fleira, er þetta guðlegur sannleiki, nei, það verður annaðhvort að vera lýgi, ef barnið deyr áður enn það er skírt, þá er það ekki endurfætt, og kemur ekki í guðsríki, eptir því sem versið segir.

Jeg vil seiga þjer lesari minn, hvað Lúter segir um að eiga fleiri enn eina konu, jeg hef lesið það á Prenti í þiskri bók.

Filipi, landgreifinn af Hessen, einn af Þýskalands stæðstu fúrstum, skrifaði þeim stóra trúar höfundi Martein Lúter brjef, hvar í hann beiddist að meiga taka sjer aðra konu, meðann hans fyrsta kona lifði,

Lúter svaraði uppa brjefið, og segir útþrikkilega í sinu brjefi, er hann senði, lanðgreifanum tilbaka, að kristur hafi ekki umbreitt eða til baka kallað, það sem tilsett var í Móise lögum, giptumálum, við vikanði, heldur að alt geingi rjettferðuglega, og heitið því eilifa lifi til löina, og til lætur Lúter í brjefi sinu, unðan tekningar laust, lanðgreifanum að ták sjer aðra konu, samkvæmt Bibliunnar lærðómi. Vittenberg miðvikudagin eptir sancti Nicolaidag, 1539 Martein Lúter, ásamt aðrir 7 unðirskrifaðir.

Þetta brjef er útdregið frá því fyrsta bindi, af historiu þeirra ólíku prótentantisku kirkna af Jakob Beningen Bassmöt.

Þarna getið þið sjeð hvað Lúther segir um fjölkvæmið, honum ber saman við Jóseph Smith og ritninguna, með tvö höfuðatriði, skírnina og fjölkvæmið. Lúther svo gáfaður og rjettþenkandi maður, hefur sjeð það í Nýjatestamentinu að það á að skíra með niðurdífingar skírn, menn sem hafa mál og vit á illu og góðu, enn ekki ungbörn, og því líkir hann því við að skíra trjestump.

Svo og líka hefur Lúther sjeð í ritningunni í Móises bókunum að 4 beztu guðs menn, sem Guð talaði sjalfur við, áttu margar konur Abraham, Jakob, Davið og Salomon, cg í gegnum þessara manna fjölkvæmi er frelsarans ætt að rekja hjá Mattheum í 1 k. Guð sagði, að af Abrahams sæði skyldi, allar þjóðir á jörðunni blessun hljóta, af þessu hefur Lúther sjeð, og allir sem vilja sjá, að Guð hefur matið þá menn mest, sem áttu margar konur. Líka getið þið lesið hjá Hóseasi í 1 og 3 kap. að Guð sagði honum að taka sjer 2 konur, og Hóseas hlýddi því, og þetta er alt samhljóða því, er engillinn sagði við Jóseph Smith árið 1843 þó fæztir vili trúa því, er Jóseph Smith sagði.

Jeg hefi nú hjer að framan talað um ymislegt, við víkjandi Mormónatrú, enn ekkert hefi jeg sagt þjer lesari minn, um þúsund ára ríkið, enn ef þig langar nokkuð til að lesa um það, þá vil vísa þjer í bók Þorðar Diðriksonar, það er greinilega sagt frá því í sjöunda kapitulanum, og stendur heima eptir ritningarinnar orðum. Ekki hef jeg heldur talað um þá athöfn, að skírast fyrir þá dauðu, Þorður segir og svo greinilega frá því í 8 kapitula. «Enn þetta hvorutveggja mun ykkur þykja, ósannindi og hjegóma vitleysa, enn ef þið dæmið þetta hvorutveggja vitleysu, þá gjörið þið ritninguna að villubók, og þá er ykkur vorkun þá er satan búinn að blinda ykkur, og ef þið viljið hvorki trúa Þorði nje mjer, þá sjái þið einhvern tíma hvernig ykkar hlutskipti fer, jeg er aldeilis ekki að kætast yfir því, jeg er miklu fremur aumur yfir því, að vita fyrir víst af annara óförum, og geta ekki snúið kunningum og löndum mínum frá hættunni, enn til að reyna alt sem mjer er mögulegt, þá hefi jeg nú tekið þessa litlu bók saman, af elsku til minna landsmanna. ef jeg gæti opnað með henni, þeirra augu, eyru og hugskot, og er mjer miklu hughægra ef jeg gæti komið henni á prent, og svo berrst um landið, þó jeg viti að jeg fæ hjá sumum mikla óþökk og hatur fyrir minn bezta tilgang.

---

## Nokkur ord um ymislegt veraldlegt.

Nú í dag er 1 marz 1882 í annari viku góu, og sólskin, og snjórinn að heita bráðnaður upp á öllu slettlendi, hann var hjer mestur á Þorranum ½ alin, hjer er alltaf indisblíðu veður, því það má heita altaf logn, þó hann hvessi stöku sinnum, þá er það aldrei

lengur enn einn og tvo tíma, hjer hefur verið töluvert frost á nóttum frá því með aðventu og til þorra loka. Hjer var styztur dagur 9¾ tímar; hjer var fjöldi manns að vinna að járnbraut frammundir þorra, með því að sletta hæðir og fylla upp lægðir, undir brautina, það á að leggja járnbraut hjer ofan í bæinn í sumar, ofan úr fjöllum. Í fjöllunum hjer eru mikil auðæfi, gull, silfur, eir, blý, járn, kol, saltnámur, og utan á þeim skóarnir, og eru dampvagna trossurnar á hverjum degi, fram og aptur að flytja þetta niður í staðina, jeg var í januar á jarnbrautinni í 25 daga og fjekk 140 krónur, jeg fjekk 6 og 7 krónur um hvern dag, og frikost þrisvar á dag eins og í beztu veizlu; í október og nóvember innvann jeg mjer 10 tunnur af maiskorni, og 8 tunnur bankabygg, um 20 krónur í öðru og sumir Íslendingar þó miklu meira enn jeg. Hingað er gott að koma fyrir unga menn fríska, bæði fyrir tíma og eilífð; á einu sumirinn vinna þeir sjer hjer 7 til 900 krónur, það er ekki svo lengi að hlaupa að fá 6 og 7 krónur um hvern dag og fríann kost, og ef þeir taka mormóna trú og láta skíra sig og lifa skikkanlega, þá eiga þeir víst að verða sáluhólpnir, í sama máta fyrir kvennfólk gott, það er ekkert látið gjöra útivið hverki sumar nje vetur, ekki svo mikið sem að mjólka kýr, bændur og prestar gjöra það sjálfir, biskupin aukinheldur aðrir, hjer er ekki mikið um dramb eða stórlæti, þó háir sjeu í embætti, þeir vinna og gjöra alt hvað fyrir kemur þeir fá enginn laun, ekki biskupinn aukinheldur prestar.

Lika fá hjer nóg að gjöra, og há löin, trie smiðir, Jarn smiðir, og gull smiðir og er gótt fyrir þá að koma hjer, enn það er gótt fyrir alla að hafa tól með sjer, því þaug eru hjer mjögðir, enn þó væn, galmir menn sem eru bunir að slita sjer út þurfa allstaðar að hafa upp eldi, það er fjöldi af gömlu fólki hjer, það er ekki

drepið, eins og skrafað var af hatursmönnunum uppa Íslandi, heldur er þeim þar i stað, sem öingvann eiga að skaffað fót og fæði í hverjum manudi, só að einginn líður neitt hjer, þó fátækir sjeu, enn þeir eig nátturlega betra sem rikari eru, sem ekki er tiltöku mál, hjer eru trie eða eikur í kringum húsinn, hja flest öllum, hja bóndanum sem jeg er hja, eru 70 eikur, og á þessum triam vagsa sikur sæt epli stór og smá, sem bæði eru brúkuð í heima húsum og seld í búðina, sumur gjörðu hjer reiking í höist uppa 3 til 500 krónur, af öllu Utak landi, er farið með öll epli í saltsjöstaðinn og í nóvember fóru þaðann, niður til staðanna 75 vagnar með epli, og í hvurium vagni vöru 20 þusund pund, og eptir var nog i 30 vagna, og hvert pund köstar hjer 40 áur, og þar að áuki flist hjeðann mörg þusund túnnur af hveiti og öðrum kórnmat, landið er gótt hér, og vedur sæld indisleg, hjer eru hunangsflugur, og sílki órmar, einn gamall bondi hjer á mörg þusund af hunangs flugum, og hann fekk eptir þær í sumar af hunangi 5,576 pund hann á um 40 flugna hús og er mörg húndruð í hveriu húsi, þær fliua allar útum Jörðina á daginn, nema ein er alt af heima, i hveriu húsi, sú sama og er stæðst, og er kölluð flugna drótning, hinar fliuga útum Jórðina og siuga hunangið úr imsum eplum, og bera það heim í husið sitt á fótunum, þær eru á stærð við maðkaflugu nema litið leingri og mjóri, pundið af hunangi kóstar hjer 30 áura, stúlka ung úr Reykjavík, giptist þessum manni, sem á þettað, og margir fleirri eiga hjer flugur, silkiórmurinn er likastur brekkusnigli, hjer eru dirir hestar, og mular, og öfnur. 3 til 500 krón, enn nöit, og kir, og fje, er álika dirt, og þar sem það er vænst á Íslandi og dirast.

Hjer má búsetia sig hvurrar trúar maður sem er, ef hann or skikkanlegur í mannlegu fjelagi til orða og verka.

# Nokkur ord um mansinns æfi frá fæding til dauda.

Firsta fimtu dag í hverium Almanaks mánudi, er hjer messað í kirkunni, og þá er farið með í hana, öll nyfæðð börn, blessað yfir þaug, og gjefið nafn, kauplöist, og svo er þaug stalpast, latinn fara í skóla, að læra að lesa og skrifa og reikna, og lesa Ritninguna og Nyatestamentið, og út þitt fyrir þeim að hliða guðs boðum, og fórdast alt sem guð hefur bannað að gjöra, og hvað viðliggi ef ekki er hlitt, herrans bóðum, og svo skirð strax eptir embætti á fimtu dögum, með niður difingar skirn, og só strax blessað yfir þaug, þettað er gjört á sumarinn þegar vatnið er volt, og öll sem greind eru, skirð 8—10 ára, og svo látinn vera í skóla, í 5—7 ár, þar á eptir. Svo þegar fólk giptir sig, er ekki list, og ekki spurt að, nema einu spursmáli á bruðar beknum, sem er þettað, hefurðu raðfært þig við guð í himninum, og þessa persónu, að vera með henni um tíma og eilifð, svar, já, þar er einginn pussunar tóllar eða borgað enn það gjefa flestir prestinum 1 dollars, og sumir halfann, og höfð veista og gledi dans á eptir.

Þegar menn deia, aður enn likið er borið út, mælir einhver yfir. Likinu nokkur orð bladalöist og sungið þegar likið er borið út, og svo við gröfina, er einginn presta spaði, og einginn prestur seigir neitt, með móldar reku í hendinni, þegar búið er að móka ófani gröfina og ganga frá henni eru töluð nókkur orð og sanginn eitt eða tvö vess og einginn veisla eða gleði höfð á eptir.

## Litil ráðlegging.

Nú hefi jeg sakt þjer lesari minn, hjer að framann um imislegt andlegt og veraldlegt hvert sem þú trúir því eða ekki, enn hverttvegga er jafn satt, jeg giska á að sumir seigi, jeg trúi því veraldlega, enn hinu ekki sumir maskie seiga jeg er óvissum að hann skrökvi mikla af þessu, hann sytjerar í margar bækur, það renna á mig tvær grimur, með að trúa því er hann seigir, eins og Agrippa Konungar sagði við Pal, í Pósutlanna g. bók 26 kp. 28 v, Litið vantar á, að þú fáir mig til að verða kristinn, hann sá og heirði að Pall sagdi satt, enn þó vildi hann konungurin ekki trúa, og ef þú ert nú eins lesari minn, og kongurinn, að þú sjerð sannleikann og half trúir þá lifgadu andann, lifgadu ljósið enn slöktu það ekki, ef þú slökkir það, þá ertu í mirkri enn ef þú lifgar það, þá ertu í birtu og att hægra með að finna veginn til lifsins, ef þig langar það nokkuð, lattu það ekki sannast á þjer, sem frelsarinn seigir, ljósið kom í heimin, enn menninnir elskuðu mjer mirkrið enn ljósið, einhver maskie seigir, jeg trúi Prestinum minum betur enn þjer, með trúarbrögdinn, enn jeg svara fardu með bók þ. Diðriks sonar, til Prestins þins, og lattu hann reka hana, þú munt svara nei, það gjöri jeg ekki, jeg fer ekki að stigga prestinn minn með því hann er besti vinur minn, hann er salusórgari minn, og skrifta faðir, jeg gjeld honum riktuglega, og alt er í mesta dálæti hja okkur, enn hann hatar ikkar mormóna bækur og trúar bodun, jeg læt árka auðnu með mina sáluhjalp uppa prestins vinfeingi og ábirð, jeg svara, viltu meta meirra vinskap prests, heldur enn þina sáluhjalp, einhver af ikkur seigir, nei, það vil jeg ekki, jeg er hræðður um að vinskapurinn fari af ókkur, ef við förum baðir

illa, og jeg sje og heiri að hann hefur kjent mjer rangt, jeg vil frammifir alla hlúti, vera viss um mina sáluhjalp, og vera heldur vinur guds enn prests, hvur sem er sona þeinkandi, þeim hinum sama vil jeg ráðlegga, hvur sem hann er, hvurt sem það er sislúmaður, Læknir, Kaupmaður, Hreppstjóri, Meðhjálpari, fórsöingvari, eða í sveitarnend, og allir bæði kallar og konar, spurið þið prestinn ukkar að þremur spursmálum, fyrst hvert að hann skiri alla með þeirri rjettu skirn, eins og Johannes og Póstulannir skirðu, eptir Jesu bóði. Annað spursmál, er komfinnmarssjóninn guðs boð, eða manna bóð, þriðia spursmál hvurt er sakramentið til sindakvittunar eða til minningar, og svo líka spurið hann að, hvert hann vilie eða þori að standa í ábirð fyrir ókkar sáluhjalp.

Eða þórirðu að setja þina sáli veð uppá, að það sje rjett og satt sem þú seigir og gjörir, í þessum þremur höfuð atriðum, tákið þið nu vel eptir, hvert það kom ekki á hann vöblur og vandræda svipur, að svara upp þessi spursmál, og máskie sumir prestar kólni í nöp, sem búast er við, þeir verða þá í vandræðum, nema að taka til liginnar og vanans, jeg gjet ekki skilið, eða vitað hver þeir finna sannar ástæður, þið heirið þá hvar þeir sitjera í, og hvar þeir bigga sinn sannleika á, þið verðið að bidia hann að sina ikkur í bókunum sannleikann, enn jeg er hræðður um að þið meigið bida við, á meðann hann leitar að því, af því að þeir finna það hvurgi og óvist að þeir fletti upp nókkurri bók, og fáir prestar munn ekki bita svo höfuðið af skömminni, að þeir vilie eða þori að setja sina sál í veð, að það sje guðs boð, skirnar að fe..inn þeirra, og komfinmarssjoninn, eða sakramentið rjett, ef þið fáið nú hja þeim litil og mögur svör, sem jeg er viss um að verður, þá verðið þið að neiðast til að seiga við prest, þar þú hefur ekki betri ástæður fyrir þinum órðum og gjörðum enn þettað, þá þorum vid ekki að treista á þig, með ókkar sáluhjalp,

og verðum við þessvegna að sköða aðra lærðóma, sem ókkur finnast sennilegri, eptir Ritningarinnar orðum, enn ef prestur mælir á móti því, sem ólíkt er að nókur gjöri, og seigist ekki vera skildugur til að svara uppa þessi spursmál, þá skuluð þið minna hann á það sem Malakias seigir í 2 kap. v. 7, því varir kjenni mansins eiga að varðveita þekkinguna, og menn eiga að sæka lögmálið í munn honum, því hann er sendiboði Dróttins Alsheriar, þess vegna, riður prestum mikið á að þeir seigi fólkínu satt, og þeim sjalfum þó mest, því að allra velferð er í veði ef ekki er hlitt herrans boðum, og brukaðir mannasetningar í þeirra stað, eins og Pall seígir í Pislin til Galata m. 1 k. bölvaður veri sá maður sem öðru visi kjennir, sem trubla, yður, og vilia rángfæra Kristi náðarlærðóm.

Einhver maskie seigir, guð er naðugur og miskumsamur, og dæmir ókkur ekki hart, enn þá seigir á öðrum stað, guð er rjett latur, og geingur rikt epir að lifað sje eptir hans bóðórðum, og Jesus seigir, þeir munn ekki allir sem seiga herra, herra, innganga í guðs riki, heldur þeir einir, sem gjöra vilia mins föðurs sem á himnum er, það er auðskilið, það verður að hliða guðs boðum, enn ekki manna boðum ef vel á að fara, því öll Jesu orðu eru sannleiki, hann sagdi við Pílatus, til þess er jeg í heiminn kominn, til að bera vitni sannleikanum, og Pall seigir í 2. korint, 6 kp. 8—9 v., vjer álitumst svikrar, enn finnust þó sannórðir, erum litils virtir, enn þó nafnkunnugir.

Sama meigum við mormónar seiga, við erum hatadir fyrir ókkar lærdom, að hann sje vitleisa og ligi, enn einginn gjetur þó rekið hann, með sönnum ástæðum, því við mormónar biggum ókkar lærðóm og trú á Ritningáinnar Frelsarans og Póstulanna orðum, og guði sje lóf, að hann hefur lófað ókkur að sja sannleikann, og hliða honum, og útbreida hann. Það væri gaman fyrir

þig lesari minn, að vita hvað prestur seigir, og ekki einasta gaman, heldur lifs nauðsynlegt, fyrir hvurn mann og konu, svo maður viti fyrir vist hvad sannast og rjettast er, það er ekki svo litið í hufi ef illa fer, því ef sá rjettlati verður nöimast hólpinn, hvar mun þá sindar_inn birtast jeg er viss um að margir af ikkur lesarar minir, hugsið og seigid, jeg er hjartanlega glaður, ánægdur og rolegur, í minum þanka, að jeg er laus við að trúa, eða sinna, þessari mormóna villa, sem þeir eru að útbreida um allann heim, með sendimönnum, og bókum enn jeg svara ikkur og seigi, með áreiðannlegri vissu, að sá timi kjemur síðar, að þá verdur þvert á móti, þá verði þið áumir og óánægdir, með nagandi samvisku, er þið sjáið þann rjett trúaða mormóna flókk, sem guð hefur þá upphafið í sina dirð, eptir að heimurinn hafði fórðæmt þá og fyrirlitið hjer í tímanum, og eptir samti Pals órðum í fyrstu korintu 6. kap. sjaustum við siðar meir, og tölum þá samann, aptur, og þá munuð þið seiga, nú sje jeg að þú hefur sakt ókkur satt, aður í veröldinni, því var æ ver og miður að við hliððum þjer ekki þá, með að trúa og lata skira ókkur, enn þá gjet jeg ekkert ráðlakt ikkur, sem þversköllubust, nema vorkjennt þeim sem fórðæmast, og jeg var búinn að aðvara, enn þó glatt mig undir eins við, að þeirra blóðs verður ekki krafist af minni hendi, þar eð jeg hafði aðvarað ikkur um, hvað við lægi ef þið hliððuð ekki sannleikanum. Þá mun herrann spurja ikkur að feinguð þið ekki boð með mormónum, um nyann náðarboðskap, frá himnum, í gjegnum Josef Smitt, þá seigi þið ja, þá seigir herrann. sögðu þeir ikkur ekki, að þið skilduð fá, eylifa sælu ef þið triðuð og hliððuð, þá seigið þið, ja sögð þeir ikkur ekki að þiðfæruð illa, ef þið hliððuð ekki því er þeir sögðu ikkur, þá verði þið að seiga satt, og seiga já, þá liggur svarið opið fyrir, þið hafið þá heldur viljað

ekki trúa, og ekki hliða, og fara illa, þá gjeti þið ekki sakt nema já, ellegar, að þeiga.

Þettað mattu buast við lesari minn, að komi fyrir þig ef þú gáir ekki að, á hvaða vegi þú nú ert, hvurt sem þú ert æðri eða lægri stiettar. Jesus segir hjá Johanesi 12. k., v. 48: það orðið sem jeg talaði til ykkar, mun forðæma iður á siðasta deigi, og hann segir lika: Það sem jeg seigi einum, það seigi jeg öllum, hans orð tala til okkar enn í dag, í nýja Testamentinn, og samkvæmt því hefur hann boðið öllu fólki á Jörðinni nú í þessa siðustu daga, að giöra og hliða, er hann senði Eingilinn til Joseps Smitt, en þið vilið ekki trúa því, jeg vil enn seiga þjer lesari minn, að það verður ekkert gaman fyrir þá sem ekki vilja gá að sannleikanum hjer í tímanum, og sem hefur verið tilboðin hann, og forsmá hann. Malakias segir í 3 k., v. 18: Þa skal yður gjefa á að lita, þann mismun, sem er á millum rjettlást mans og óguðlegs, á milli þess sem guði þionar, og hins sem ekki þionar hönum, og í 4. k., v. 3, þeir skulu sunður tróða hina óguðlegu, því þeir skulu verða aska unðir ilium yðar á þeim deigi, sem jeg læt koma, segir Drottinn alsheriar, þarna gjeti þið sieð mismuninn, sem skal verða á þeim sem hafa trúað og hlitt sannleikanum, og hinum sem hafa forsmað hann, og fyrir litið, en jeg bist við, að þið seigið sumir af ykkur kiæru læsarar, jeg trui nú ekki mjer enn so Ritningunni eða spámönnunum jeg les skjalðann sem aldrei í henni, jeg hef litið gaman af því, hún liggur uppa hilliu, eða í skapnum, jeg er litið bættari að vera froðuri henni, enn dag blöðinn og ymsar nyjar veralðlegar fræði bækur, það á við eirað á mjer og þankann, að lesa það og hugleiða þegar á milli er hjá mjer, enn heirðu mjer, er þá ekki markið hans Malkusar á þjer, ju, heirn er þeim hægri slio. Vinstri hlust heillri halða, þikir þjer það fallekt mark, jeg veit

þú segir, nei, ekki vil jeg deya með því merki, jæa lestú þá Ritninguna og nýja Testamentið, í það minsta jafn opt og það veraldlega, Hallgrimur segir, guðs orð fær sint og sannað, hvað sje þjer leift eða bannað, það sje þitt leiðar ljos. Hvað segir Felsarinn hjá Lukasi 24. kap., við þa tvo sem til Emaus geingu, ó þjer heimskir og tregir í hjarta, að trúa því öllu sem spamennirnir hafa talað, hann meinti að þeir skildu trúa öllum þeirra örðum, og ávitaði þá fyrir heimsku og vantrú, og hjá Lukasi i 16. k., segir Abraham við þann rika mann, þeir hafa Moise og Spámennina, hliði þeir þeim, hann vissi að það var óhætt að trúa og hliða þeim, sá riki svaraði, ófaðir Abraham, þeir trúa ekki nema einhvur framliðinn upprisi, hann hefur vitað það af sjer, Ab. sagði, ef þeir trúa ekki Moise og Spám., þá trúa þeir ekki, þótt einhvur framliðinn upprisi. Sama er enn, að það er óvist að þeir riku og lærðu triðu þo einhvur framliðinn upprisi, og segði þeim að trúa og hliða því er Mormonar seiga, samkvæmt Ritningunni og nýja Testam., skrattin munði þa lika legga fyrir þá, eitthvurt vantrúar svika net. Sumahvuria, sem vest lata og mest hata Mormona, fyrir sina trúar boðun.

Hvað sögðu Prestahöfðingannir (hjá Johann. í 7. k. 29. v.) um þa sem trúðu Jesu kjenningum, þessi mann mugur sem ekki þekkir lögmalið, er bólvaður.

28. v.: Trúir nokkur af höfðingum á hann, nei, ekki nema 2 á löin, fyrir ótta sakir, er voru Nikodemus og Josep, og sama er á blaðin enn, að höfðingar mjög fáir trúa, jeg hef heyrt getið um 3 Presta, 1 í Ameríku, 1 í Norvegi, 1 í Vallanði, jeg hefi talað við marga höfðinga og rikismenn, og voru þeir fiaska misiafnir, úti okkur, það hefur alltaf verið, og mun verða til veralðar enða, að sitt sinist hvurium um trúarbrögðinn, sumir sia sannleikann, og sumir ekki, það er eitt eptir

takanlegt dæmi af Ræningunum á krossinum, þar sinðist sitt hvorum, og hafa þó baðir sjeð og heyrt jamt, alt sem framfór, til orða og verka, annar hefur athugað betur Jesu orð, er hann talaði við kvinnunnar, og maskie um vitnisburð Pylatusar, að hann væri saklaus, og að hann munði eiga eitthvað mikið undir sjer þo sona væri farið með hann, í orði og verki, og ávitaði hinn ræningann fyrir sina vantrú og guðhræðsluleisi, enn hinn gaf þessu öingann gaum, og filði helður Prestunum í hatrinu spóttinu og liginni, á meðann að hann gat hrært tunguna hugleiddu þettað dæmi lesari minn, því það er likt því er tiðkast nú á dögum í veröldinni, sumir trúa sannleikanum og hliða hönnum hvurninn sem veröldinn lætur, enn sumir kiæra sig ekkert um að gá að sannleikanum, og fylga Prestum og höfðingum í því að hata forðæma og forakta þa sem eru að útbreiða hann, eptir skipun guðs.

Jón Viddalin segir í sjö orða bókinni á 40 og 1 bls.: Hvar fyrir skilðu menn vera að ljuga að sjálfum sjer, eður sál sina á talar draga, enn vænta þar friðar hvar eingin er. Þettað segir hann satt, þettað giöra bæði æðri og lægri, og er tomlegt til að vita, og er mesta vorkun vesalings fólkinu, að það skuli ekki sjá þettað.

Enn jeg gjet nú ekki betur útþitt fyrir þjer lesari minn, og þiðir lika litið að orðlinga þettað meira, ef þú sinnir ekkert þessum framann skrifuðu linum, enn ef það er nokkur af ykkur sem vill trúa þeim og hliða, með að lata skira sig eptir Herrans boði, þá vil jeg raðlegga hönum að láta Mormona giöra það, ef þeir eru á Íslandi, ef þú gjetur náð til þeirra, eða látið þá vita það, því ekki þiðir að biðia Prestina þinn að giöra það. Jeg beiddi Prestinn minn að skira mig eins og morm giöra. Sjera Johann á Mosfelli, er hann var litið eitt að finna að því, við mig, að jeg sinti Mormona

trú, hann segir, það gjet jeg ekki, jeg kann það ekki, og jeg má það ekki, skira, so, hann svaraði þessu rjett og satt, sem hans var, hann er stiltur og gafaður, ef þú lætur skira þig, og þú gjetur ekki vegna fátæktar eða heilsuleisis komist til Syon, þá skaltu vera viss um að Herrann lætur safna þjer í flokk þeirra útvöldu, á uppskieru tímanum, enn ef þú hefur efni á að koma hingað, þá vil jeg raðlegga þjer það, í Opinb. bókini í 18. k., v. 4 segir, farið útaf borginni mitt fólk, svo þjer hreppið ekki hennar plagur, ef þú kemur hjer, þá lika gjetur þú, ef þú vilt, skirst fyrir þina forfeður, eða mæður. Þeir skirast fyrir þá, enn þær fyrir þær, enn jeg bist við að þjer þiki þettað ótrúlegar hiegomi, af því að þú skilur það ekki, enn jeg vil seig ykkur til sanninða merkis, að Mormonar hjer eru búnir að skirast fyrir sina forfeður, og formæður. Liðugar 50 þúsunðir mans, og nokkrir af þeim á Íslandi, og þar á meðal Jón Þorkielsson Viddalin og Hallgrimur Pieturs-son. Passiu salma skald, þessir voru í ættlegg tvegga íslenzkra manna hjer, jeg seigi ykkur eins og er, með þettað sem annað, hvað sem þið dæmið um það, enn jeg er viss um að dómannir verða margir, og mjög misjafnir, um þessa bók, eins og um flestar bækur.

Að siðustu vil jeg seiga þjer lesari minn, ef þú kinnir að geta sjeð og skilið, það stendur skrifað hjá Malakyasi í 4. k., v. 5 og 6, sjá jeg senði yður Elias, spámanninn, aður enn hinn milki og ógurlegi ðagur drottins kemur. Hann skal snúa hjörtum fedranna til barnanna, og hjörtum barnanna til fedranna, ef þú skilur ekki þettað lesari minn, þá vil jeg seiga þjer að þettað sannast nú með því, að nú er fólkið hjer sem sjer og trúir sannleikanum, að skrifa út um löndinn, sumir sinum foreldrum, og sumir sinum börnum, að koma hingað, og trúa, og að hliða sannleikannum, so það gjeti feingið þá eilifu saluhialp, og allar þær bless-

anir, sem guð hefir lofað þeim rjett trúuðu, jeg á 3 sini uppa Íslandi, eirn þeirra trúir enn tveir ekki, og skal jeg gjöra allt hvað jeg gjet, að tala um fyrir þeim, og ná þeim hingað.

Og enn vil jeg seiga ykkur sannleikann, að nú er það skieð eptir guðs lofórði, og hans alvisu ráðstöfun, að Elias er kominn, og var senður hjer niður á Jörðina árið 1836 þann 3. april til Joseps Smitt, og gaf honum minðugleika og fullmakt frá guði til að útfæra allt eins fyrir þá dauðu, sem þá lifanði, bæði með Skírnina og ymislegt annað, þeim til saluhjálpar sem hlíða og trúa, og þeim dauðu, sem vildu trúa, í anðanna veröld. Jeg veit að nokkrir af ykkur seigíð, þessu trúi jeg ekki, enn jeg svara, gat þettað ómögulega skieð, að Elias sje kominn, þar guð hafði lofaði því, ja vissulega, eða ætli þú og jeg, eigum að vonast eptir að hann verði senður til okkar, og sjæðum hana koma ófanur himninum, niður fyrir okar fætur, nej, eða þó so væri, að hann væri sendur til þin eða min, og hann segði okkur að seiga fólkinn hvað það ætti að giöra, til að fá eylift lif, og við skilðum so fara út um veröldina og seiga fólkinu þettað, heldurðu að allir minði trúa okkur, nei, alðeilis ekki, það irði eins farið með okkur, eins og farið hefur verið Joseps Smitt. Jesus segir hjá Johannesi í 20. k. 29. v., við Tómas, sælir eru þeir sem ekki sjá, enn trúa þó, hann meinti þeir sem trúa sannleikanum, en ef þú trúir honum ekki, eða þeim sannleika sem Mormonar kenna eptir Joseps Smitt, þá vil jeg seiga ykkur öllum, sem orð min heyra, með áreiðannlegri vissu, að þeir sem ekki vilja trúa og hliða þeim Lærdómi sem Mormonar kenna, þeir þurfa ekki að hugsa eða hlakka til, að fá að lifa þá sælu og unað semð, að rika með frelsaranum hjer niður á Jörðinni í þúsund ár, þeir skulu allir biða til dómadags, sem ekki verður fyrri enn þaug 1000 ár eru liðinn, hvurninn sem dómurinn

fellur þá lesari minn. Jesus segir, hvur sem ekki trúir, mun forðæmast, og hann segir lika, að margir verði kallaðir, en fáir útvalðir, hann hefur vitað það fyrir, að fólkið geingði ekki kallinu, eða naðarboðskapnum, enn jeg vil seiga ykkur kæru lanðar minir, geigni þið kallinu, geigni þið sannleikanum, hlidið þið herans náðar boðskap, jeg er búinn að seiga ykkur hvað við liggur, ef þið hliðið ekki, því jeg seig ykkur dagsatt, að þið eruð ekki á þeim rjetta vegi sem til lifsinn leiðir. Jesus segir hjá Lukasi 14. k., v. 24, því jeg seigi yður, að einginn þeirra manna sem kallaðir, eða boðnir voru, skulu smakka mina kvölðmáltið. Þeir eru allir illa komnir, sem forsmá boðið, og þa rjettu skirn, enn þið allir eruð óskirðir þeirri rjettu skirn því Prestannir kunna ekki, og meiga ekki skira þeirri rjettu skirn, fyrir yfirvölðunum, og af gamlum vana, sem ekki má umbreita, þó fólkið sjá, að þettað er ástæðulaust, skaðlegt, og lif og sal í veði, ef ekki er að giört, hafi þið Hallgrims rað er hann segir í salm. 8, v. 17. Í dag við skulum skipta um skjott, skal sinð á flótta rekin, hvur veit nema sje nú í nott, naðin í burtu tekinn.

Jeg enda nú að tala um trúar brögðinn, því ef þið gjetið ekki skilið, nje trúað neinu af því, sem jeg er búinn að skrifa, þá mun það litið þiða, að hafa það meira. Þið munu verða eins og Pall segir um þá í Róm. í Post. G. bók, 28. k., v. 24: Nokkrir fjellust á það sem hann sagði, enn sumir ljetu sig ekki sannfæra og eins munu þið verða, og væri nú gott og gleðilegt, ef nokkrir sannfærðust, og irðu hólpnir, og kjæmust til sannleiksins viðurkenningar.

---

## Litil fyrir sögu.

---

Efað einhvurium dettur í hug, að trúa, hliða og kóma, þá vil jeg seiga honum, að hann þarf að hafa til ferðarinnar 300 og 70—80 kronur, og hann má hafa í farinu sinu 90 pund, og enn fremur vil jeg seiga honum, að það er bezt að hafa vel sterk kofort eða kassa eða litla kistu, og so föt og sængur í nyum túnnusekkum, og rigbinða so hvorutvegga með nyri snærishöink, 4 faðma stikki, því gossið er halað uppi skipinn, þú skalt hafa með þjer allan þinn fatnað, og þó það sje bætt, nema vestu garma, helst kallmenn það eru hjer margir kallmenn í bættu við erviði, lika þarf hjer mikið af sókkum og veltingum, hjer ganga allir ungir og gamlir, á svarta skom, og stigvjelum, og slitur sókkum. Lika er nauðsinlegt að koma með sængur, hjer er ekki fiður að fá, nema af hænsum, ellegar þá af skókfuglum fjaska ðirt, þú malt lika koma með hattin þinn gamla barða stóra, hjer hafa allir kallmenn flóka hatt barðastórann, til að hlifa anðlitinn við solarhitanum, enn ekki þarf konann eða stúlkann þin, að koma með húuna sina, hjer siest einginn kvenn maður með húu, enn með rókkinn sinn væri gottað koma, því hjer er mjög litið um þá, konann min fór með rókkinn sinn, og komst með hann heilann hingað. Þegar jeg bár hann af skipi og á, í Newyork þá horfði fólkið þar á hann, eins og annað furðu verk, eirn maður falaði hann mikið af mjer, til köips, að láta hann á siningahús, og vilði gjefa mikið fyrir hann, enn jeg neitaði því, enn sá þó eptir því. siðar, þegar hún salaðist.

Lika er vænt að koma hingað með Peninga, því hjer fæst miklu birlegra Land, hús, og skjepnur, fyrir Peninga, helður enn fyrir annað, það fæst bittað á

enskum peningum og dönskum í Englandi, og amerikanska fyrir Enska í Newyork, jeg bittaði peningum á þessum stöðum.

Jeg er nú búinn að seiga þjer Lesari minn, um allt sem jeg man, um allt það nauðsynlegasta, andlegt og veraldlegt, hvurt sem þú brúkar nokkuð af því eða ekki, því ræður þú nátturlega sjálfur, jeg gjet ekki meirra að gjört, enn ráðlegga ykkur, og seiga ykkur satt.

---

## Hitt og Þettað.

Nú í Marsi og fyrst í April, hefur verið sá mesti vatnagangúr sem menn muna, hjer í suðurstöðum Ameríku, og orðið að fiarsaleggum skaða og vandræðum, stórfljótið Missisippi hefur rifið sig út úr sinum farveg. Skjemt hús og drepið skjepnur so þúsundum hefur skipt, og stjórninn sendi í hasti dampskip og dampbata til að teka fólkið, er var á trje flekum, og húsa þökum á vatninu, og sumt dáið af hungri og kulda, Staðinnir eru búnir að skjóta samann gjöfum handa þessu hráknings fólki 200 þúsundir kronur, þann 6. Marz stóð hjer í dagblaði, að fliótið Missisippi væri nú 100 og 50 milur á breidd, yfir því bezta og frjóðsamasta landi sem til er í Ameríku.

Eirn stór dalur ágæti gótt uppskjeru Land, af bómull og öðru, sem voru í 40 þúsundir mans, eiðilagðist allar nema 3 bæir, á einum stað voru uppflosnaðir og alveg alslausir 500 svertinga grei, er hvurgi hefðu höfði sinu að halla, þettað er langt fyrir sunnann okkur.

Eirn gamall og marg uppi vis, dampvagna, ræn-

ingi, sem þeir gátu þó aldrei náð, var so boðið hvurium sem gæti drepið hann 200 þúsundir kronur, þegar hans sialfs samlags þjonar heyrðu þettað mikla boð, þá datt þeim í húg að klara hann, og fáþettað í búdduna sina, enn hann var mjög var um sig, dag sem nótt, með fulla vasana af Pístólum hlöðum, enn þó feingu þeir að lokunum lag á að drepa hann, enn óvist er að allt sje úti hjá þeim, því það var grunur um, að þeir væri hans fylgis fiskar, þettað var í suðurstöðunum.

Ein saga sem var bæði sögð og prentuð á Íslandi, um að Mormónar hafi drepið ferkafólk, sem ætlaði til Kaliforníu, og skal jeg uú segja ykkur satt um það, og byrjar þá svo: Að þegar þetta ferðafólk kom til Utha, um haustið, var því ráðlagt að fara syðri veginn til Kaliforníu, því fólk hafði opt dáið úti á fjöllunum, á nyrðri veginum, sem var seint á ferð á sumrinn, fólkið hlýddi þessu, þetta fólk ljet í ljósi mikið hatur til Mormona, bæði í orði og verki, að ósekju, það stal og rændi úr ýmsum bæum er það kom að, þeir sögðust hafa verið einir af þeim sem hjálpuðu til að drepa Jóseph Smith, og þeir höfðu hjálpað til að drifa 10 þúsundir af Mormónum út á eyðimörku í marzmánuði 1846, sem þá skiedi, og þá dóu fjöldi af ungum og gömlum af hungri og kulda, þeir stærðu sig af þessum verkum, Mormonar gáfu þessu engann gaum, sem þeir heyrðu það ekki, fólkið hjelt áfrám þar til það lagðist hjá vatnsuppsprettu og haga, og hvildi þar hesta sína, áður enn það lagði á eyðimörk nokkra, þar skamt frá, var Mormóna bær einn, sem stoð utast í bygðarlagi þeirra, lankt frá öðrum bæum, þar hjet yfirráðandinn Jon D, Li, þetta ferðafólk var ríkt, og slatraði nautkindum handa sjer, enn það sem það skildi eptir á áfangastaðnum af kjeti, eitruðu þeir handa Indíönum, sem höfðu eitthvað glest við þá, að ná hestum þeirra frá þeim, enn þetta ferðafólk ætlaði Indíönum að jeta þetta í hefndarþátt

fyrir glettunnar, og hugsuðu að Indíanar mundu kenna þenna hrekk. Mormónum er voru í bænum þar skamt frá, enn Indíanir eru eins og hrafninn altaf að leyta að æti, þeir fundu kjötið í áfangastaðnum, og átu það og varð dauðilt af; Indíanar sáu nú hverskins var, að ferðafólkið hafði bruggað þessa ótukt, enn ekki bæarmenn, því þeir vissu að fólkið lá þarna, og vissu að bæarmenn voru í þeirra hendi, hvenær sem þeir vildu, ef þeir sviki þá eða syndi þeim nokkuð ilt. Nú fóru Indíanir til bæarins og sögðu Joni D. li, frá svikum þessa fólks, og höfðu verið heptugir mjög úti það, og heimtuðu Jon að koma með sjer, Joni mislíkaði, að ferðafólkið ætlaði að koma Indíönum upp á sig, og Indíanar sögðu við hann, þú hefur nóga orsök til að hefna þín á fólkinu, og ef þú vilt ekki koma, þá getum við hugsað að þú hafir verið í vitorði með fólkinu. Joni var þarna hjer um bil nauð vera, að gjöra sem þeir hemtuðu, því hann sá að þeir áttu alskosti við sig og bæinn, nær þeir vildu.

Jon fór svo með þeim, einn af Mormonum, og gjörðu þeir hann að yfirmanni flokksins, hann skildi að mestu leyti þeirra mál, þeir eltu fólkið náðu því, og drápu það, tóku það sem nýtilegast var og skiptu því á milli sín, (Indíanir eru fjarskalega grimmir ef þeir mæta hrekkum eða eru sviknir, enn aptur tryggir og vænir ef þeir mæta góðu). Nú sem þetta illvirki frjettist í Saltsjóstæðinn að Jon hefði verið þar með, var hans nafn strikað út úr kirkjunnar bók, úr tölu þeirra heilögu, þegar stjórninn frjetti þetta illvirki ljet hún taka málið fyrir fleiri sinnum, og þegar Jon D. Li náðist, bauð stjórninn honum líf sitt og fríheit, ef hann gæti flækt Brigham eða Mormona í, að þeir væru sekir í þessu, enn hann gat það ekki, því þeir vissu ekki af því, fyrr enn það var skeð. Jon varð vondur þegar hann var útskúfaður úr kirkunni, og laug mörgu á Mormona

til að fría sitt líf, og skrifaði langa lýgahistoríu, þegar hann var í fángelsinu, um Mormona, enn þegar dómararnir yflrlásu skjálið, fundu þeir í rjettinum að það var alt ástæðulaus lýgi, og varð ekkert sannað af því, er hann sagði á Mormona, og eptir dómarans úrskurði, ljet stjórninn taka hann af lífi, enn hans nafn og álýgar eru uppi, Mormonum til ills og skammar, því nær um allan heim, eins og allt illt sem logið er á Mormona, er skrifað digtað og logið mest af þeim mönnum sem hafa verið settir út af kirkunni, fyrir sín illverk og óguðlegleika. Eins og Jon Amonsson, hann komst nokkuð hátt í prestadæmi kirkunnar, enn þó ekki nærri svo hátt sem hann vildi, varð hann út af því óánægur og út af þeirri óánægju sýndi hann af sjer mart ýmislegt óskikk, og nennti heldur ekkert að vinna fyrir lífi sínu; þetta og máske fleira voru orsakirnar að því, að nafn hans var strikað út í kirkunnar bók, út af þessu varð hann svo vondur og hamslaus, að hann rangfærði Guðs boð og skipanir, og diktaði upp marga lýgi Mormonum til mínkunar og tók saman hatursfulla lýgabók, sem víða er orðinn kunnug; satan ljet hann gjöra það Monmonum til skammar, og sjer sjálfum til fordæmingar, og almenningur trúir að hún sje sannleikur, enn það er þvert á móti, hún er dóttir satans, því lýginn er það. Það sannast vel á þessum tímum sem skriftinn segir, að á siðustu tímum verði fárlegar tíðir fyrir folkið, af hverju er það? svar, af því að fólkið gáir ekki vel að, hverir sannast segja, sem fólkinu ríður þó mikið á, þar eð nú nokkrir segja þetta og hinir hitt, um trúarbrögðin. Margir eru sendir út um löndinn, eptir Guðs boði, og verja til þess mörgum þúsundum krónur árlega að útbrieða sannleikann, og að útbreiða þann heilaga náðarboðskap, aptur þar á móti hefur belsebub fjölda marga þjenara, til að standa á móti þessum mönnum og herrans boðum, og verkar á þá, í því

og því landinu, og láta þá taka pennann og búa til villumyrkur, svo fólkið sjái ekki sannleikann, og útvelur þá helzt sem hann veit að fólkið trúir bezt, og hugsar að viti mest, og þessir eiga hægast með að halda fólkinu í villunni, og þeir gjöra það líka, og vaninn gamli hjálpar þeim mikið til, að láta fólkið sofa í andvaraleysi, eins og skaldið segir: «Svo í heimskunni sætt jeg svaf, sjaldan mig neitt að slíku gaf,» enn sá kemur tíminn síðar, að folkið vaknar, og sumir við illan draum, því er betra, að allir sjeu vakandi í tímanum.

Nú get jeg sagt þier nokkuð nýtt í frjettum lesari minn, þann 6. Apríl 1882, var jeg kallaður af þeim æztu 12, til að fara til Íslands, að bjoða ykkur í gestaboð eða í brúðkaup, kæru landar, hvernig sem þið takið mjer, jeg bíst rjett við því að það verði misjafnt, jeg kvíði samt ekki neitt fyrir því, að koma til ykkar, jeg tek glaður við hverju sem að höndum kemur, jeg á að útþýða fyrir ykkur hvernig þið eigið að vera búnir í þetta brúðkaup, þið vitið að það á ekki að vera sjerstakur fatabúningur heldur auðmjúkt hlýðið og trúfast hjarta og sinni, og færa þar af ávöxt goðann til orða og verka, enn jeg bíst við að þið sumir hugsið og máske segið: jeg kem í brauðkaupið með folkinu eins og mjer sýnist bezt, svona, og svona og svona, búinn, jeg get ekki verið að sinna ykkar nýu boðskapar reglum, enn heyrðu mjer, hvernig var farið með þann, sem ekki var skrýddur því rjetta bruðkaupsklæði, það voru bundnar hans hendur og fætur, og kastað í hin yztu myrkur, þar sem er grátur og gnístran tanna, það voru og verða, tomleg umskipti, að fara á mis við þá ljomandi gleði, og hreppa kvalanna myrkur, það er allenasta einn búningur sem herranum líkar, og það er sá, sem við Mormonar kennum ykkur, samkvæmt því sem Jesus kenndi, og hans postular, og nú aptur eptir skipan Guðs, enn þið munuð sumir segja, jeg trúi

ykkur ekki, jeg vil ekki sinna ykkar boðskap, jeg geng á minn búgarð, og jeg til minnar verzlunar, og mart fleira sem við metum meira, heldur enn sinna þessu ykkar boði, jeg, eða við, getum ekki að gjört, þo þið gegnið ekki boðinu (þeir sem bjoða í veizlur, er ekki umkennt, þo boðsfolkið komi ekki), herrann segir að enginn þeirra manna, sem boðnir voru, skuli smakka sína kvöldmáltíð, nátturlega ef þið forsmáið hans boð þá forsmáir hann ykkur, hvað tekur þá við, gáið að því, enn þeir sem hlýða, fá að sitja til borðs með Abraham, Isak og Jakob í ríki himnanna, um alla eilífð, um þetta boð má lesa hjá Mattheum í 22 kap. og Lukam í 14 kap.

Eitt veður oskaplegt í stöðunum í Ameríku, í einni borg brotnuðu og fuku 18 hús, og 4 kirkur, og dou 30 manns, í annari borg brotnuðu 5 hús, og eitt barnaskólahús, með börnunum í, og meiddust þau sum, og dóu nokkur, og mart fólk fleira.

Og enn á öðrum stað, fuku stor múrhús sem þurir köglar, og timburhús brotnuðu niður sem eggjaskurn, stór bjálkatrje tóku hátt í lopt, yfir langt svæði, stórar eikur brotnuðu af stofnum, og er það fáheyrt; einn mjór trjeás kom á endann á kú og í gegnum hana, menn tóku hátt í lopt, og komu niður, sumir laskaðir og sumir dauðir, einn maður þegar hann kom niður vár tætt af honum föt og hold, nú er 23 apríl, þetta stóð í dagblaðinu i gær, og segir þar í, að því verði ekki lýst hvernig það var hörmulegt, þessu fylgði dymmur skýdampi, með ógurlegum hvin og ólátum sem fortærði öllum mishæðum nema jörðunni sjálfri, og frjettaþræðir tættust í sundur, elstu menn í Ameríku munu aldrie eptir svona miklum og fjarskalega skaðlegum vatnsflóðum, ofsa veðrum, og eldum eða húsbrunum, sem hafa verið 1881, það sem er af þessu ári 1882, 1881 frá fyrsta janúar til 30 október, gusu upp 133 eldar á

ýmsum stöðum, og eyðilagt fjarska mikið af húsum og góssi, og sumstaðar fólk brunnið, og mörg þúsund af fólki húsvilt og alslaust, og stjórnin og ýmsir menn hafa gefið því margar miljónir krónur. Enn hjer í Utha megum við lofa Guð fyrir að hjer hefur ekkert skaðað okkur, hvorke vatn, veður, nje eldur, hjer er alt uppá það yndælasta, frá Guðs verndar hendi, þó allar þjóðir hati okkur, óttustum við ekkert, það er samkvæmt skriptinni og frelsarans, og samti Páls orðum, okkar hatursmenn geta ekki neitt mein gjört okkur meira enn þeim er leyft, við trúum og treystum Guði fyri okkur, að hann verndi sína litlu sauðahjörð.

Einhver máske hugsar og segir, jeg er hlessa á því, hvað þið Mormonar eru trúar- og vongóðir til herrans, eins og mart ilt er af ykkur sagt, og prestarnir okkar H. og S. eru að gefa út prentaða bæklinga, um að vara alla við að trúa henni, og útmála þar í mart ilt og ljott í ykkar trú, enn jeg spyr, geta þeir sannað sínar sögur með gildum ástæðum? þú svarar, nei, og enn spyr jeg, eru ekki neinir ósiðir eða óskikk í lúthersku trúnni hjá prestunúm á Íslandi, einhver svarar og segir, jeg held það eigi að vera alt gott og fagurt hjá þeim, enn jeg svara, jeg skal hugsa mig um, hvert jeg finn ekki nokkra galla í hjörðinni hjá þeim, eru ekki margir að drepa sig sjálfir, og einstaka að kasta út börnum, sverja rangann eið, vinna á sunnudögum á sjó og landi, drekka sig fulla og skammast, margir að stela og ljúga, og fjölda magir að bölva og ragna því nær í hverju orði, 4 til 500 börn fæðast í hórdómi og lausaleik árlega, og máske finnist líkur til að það komi fyrir, að menn drepi menn, og að endingu er jeg hræddur um að þorrablótið sje meira fjandanum til þjonustu enn herranum Pall segir það í 1 korint 10 k. er nú ekki nokkuð komið af ósiðunum lesari minn, í ykkar trú, þú veist sjálfur hvert þetta er

ekki satt, þó máske að þú hafir ekki þessa bresti, og jeg er viss um, að á metaskál, verður ykkar breytni miklu þyngri og neðar enn okkar, sem stöndum stöðugir í Mormona trúnni til æfiloka.

---

## Um úrskurð stjórnarinnar.

Út af þeim mörgu klögunar brjefum, er jeg gat um hjer að framan, er komu til stjórnarinnar um Mormona, þá hefur nú stjórnin útgefið lög um að hindra fleirkvæmið, enn landsins grundvallarlög streingilega fyrirbjóða stjórninni að útgefa nokkur lög, sem striði á móti trúarreglum og því ótakmarkaða trúarfrelsi yfir alla Ameríku, svo vítt sem það ekki skaðar líf og eignir annara manna, og segja margir blaðamenn að þetta sje ólöglegt, eptir þeirra grundvallarlögum. Stjórnin gaf fyrir nokkrum árum kvennfólkinu í Utah kosningarrjett, til þess, að það gæti fengið tækifæri að lostna úr fjölkvæmis fangelsinu, enn þegar þær fengu kostningarfrelsið, kusu þær í einu hljoði allar fjölkvæmið, því þær trúa því eins og þeir. Nú hrópa þeir aptur, takið kosningarrjettinn frá kvennfólkinu í Utah, enn þeir eiga ekki svo hægt með að brjála því.

Nú í ár 1881—2 hefur verið sundurþykki mikið á þinginu, því 40 þingmenn vildu ekki brjóta grundvallarlöginn, með að útgefa lög, sem taka kosningarrjettinn frá okkur Mormonum, meðann ekki væri búið að sanna upp á þá neina glæpi aðra, enn fjölkvæmið, sem gjörði þá rjettlausa til kosningar, enn stjórninn varð að gjöra Mormonum einhver óþægilegheit, því að prestar og þeirra fylgðarmenn heimtuðu og heimtuðu, með ákaflegu hatri, að fyrirkoma Mormonum, því þeir geta ekki motstaðið þeirrar trúarboðun, og geta ekki hrakið ritningarinnar orð, og Guðs boð, með sínum mannaset-

ningum, og það sviður þeim sumum svo, að þeir þola varla við nema að hefnast eitthvað á þeim.

Stjórninn hefur nú ákveðið að senda 5 menn til Utah, að sjá til að ekki verði kosnir embættismenn sem eiga fleiri enn eina konu, og til þess að hindra fleirkonu giptingar hjer eptir, sá sem giptist 2 eptir 1882, skal láta úti 2000 krónu, eða að liða í fángelsi í 5 ár; England hefur 200 miljónir fólk í Indíalandi, sem trúa og lifa í fjölkvæmi, og hafa gjört alla tíð, og Englandsstjórninn lofar þeim að vera í friði með trú sína, og stjórnin hjer í Ameríku lofar Indíönnm að eiga margar konur, eins og þeir hafa altaf átt, hindrunarlaust. Þessi úrskurður stjórnarinnar við Mormona seiga margir fyrir utan okkar kirku, sje af hatursfullum og ósönnum ákærum, og er nokkuð undarlegt, hvernig Mormonar einir eru hataðir fyrir fjölkvæmið, og eru þó þrír fjórðu partar, af öllu fólki í veröldinni sem trúir og lifir í fjölkvæmi, enn einn fjórði partur af öllu fólki í allri veröld, trúir því ekki og hatar það, þó það sje Guðs boð. Jeg vil spyrja þig að einu lesari minn, hvert heldurðu að Guði sje þoknanlegra, að eiga fleiri enn eina konu 2—3 elska þær og virða, og eiga með þeim börn í opinberu hjonabandi, ala börnin kristilega upp, og láta þau erfa jafnt sinn föður og mæður. Ellegar hitt að fara í hóruhúsinn eyða þar peningum, og máske tapa nokkuriu af heilsunni, ef þeir hitta fyrir þær sem eru veikar, því fjöldi af kvennfólki á þessum húsum lifir við örkuml og deyr úr þessum sjukdomi, og þú veist hvernig það gengur til á Íslandi með barnafjöldann í hordómi, og verður opt út úr því málaferli og svardagar, ilt á milli hjóna, og máske stundum skilnaðar sök. Ef þú vilt nú skoða þetta rjett með skynsemi, þá veit jeg þú sjerð, hvert rjettara eða heiðarlegra er, fyrir Guði og mönnum, dæmi þið sjálfir um, hvað best muni sæma fyrir herranum, og ykkar samvisku.

---

## Um ferdafólk og þess fargjaldsupphæd.

Þann 12. apríl 1882 fór frá Liverpool á Englandi, skip með 350 manns, Mormona trúarfólk frá Evrópu mest af því af Englandi, og það kom upp til Utah 5. maí, og nu ætlar þann 16. juni, dampskip hieðann ur Kaupmannahöfn rakleiðis til Ameríku, með fjölda af Mormonatrúarfólki, úr Skandinafiu, sem er Danmörk, Svíaríki og Morvegur.

Fargjald þetta ár, fyrir Mormona trúarfolk. Er frá Liverpool á Englandi til Profo í Utah, (sem er skamt frá Spanishfork), eru 15 pnnd, 8 skilling og 4 penn, og það eru 277 króna, 52 aur, fyrir 1 mann, sem er yfir 12 ára. Enn fyrir folk, fyrir utann okkar kirkju, eru það 17 pund, 9 skilling, 4 penn, sem eru 314 kron, 40 aur. Þetta stoð í dagblaði frá Englandi.

---

## Stórlitil saga.

Einn bæklingur hefur verið útgefinn af merkum stjörnuspekingi, (sem ekki er Mormon, að nafni Grimmer,) hann fastlega fullyrðir, að frá árinu 1880 til 1887, verði yfir alla veröld dauði. Innbúar Asíu munu að mestu leiti deya, og í Evrópu að nokkuriu leyti, Ameríka tapi 50 miljónum manna, fyrir utan plágunnar verði stormar og stormflóð, toppar fjallanna munu niður falla, í hina fryogu dali, sjomenn munu farast, því segulnálinn tapar sinum krapti, og eyar munu upp koma, og hverfa, mitt í hafinu, mikið af dyrum, fuglum og fiskum munu eyðileggast, hungurs neyð og innbyrðis óeining, mun eyðilegga flesta af þeim manneskum sem lifa af plágunnar, og að endingu munu verða 2 eldár, frá 1885 til

1887, sem mun verða yfir sjerhverium parti jarðarinnar, 1887 mun Betlihemsstjarna sjást á loptinu, sú sjalfsagða endalykt, mun verða eitt veraldar stríð, og mjög miklar yfirflæðingar og skipbrot. Norður Ameríka mun aptar verða í innbyrðis striði, nema einn Napoleon risi upp og kvelje hana; enn um þessa hræðilegu daga, munu Utah og Kalifornía vera ein sönn friðar Paradís, í samanburði við þau stríð og eyðileggíngar sem verða um veröldina, þeir fáu sem mega lifa til 1887, munu hafa ástæðu til að vera þakklatir til herrans fyrir sína náð og miskunsemi, er hann hefir auðsýnt þeim, þetta eru hans orð.

---

## Um ullarmaskinarí.

Nokkur orð um fje ullar maskinari í bænum Prófó í útak er jeg skoðaði, það er 3 tasiu hátt, hús, á efsta lóptinu er maskina sem greidir úllina, eins og í medalagi vel tána, svo á öðru lóptinu eru 24 karkamba maskinur, hvur löis við aðra, í hverri máskinu eru atta syvalir ásar, og snerust allir, allir, með finum kambavir útanum, og átú hver ur öðrum, það vár latið hjerumbil pund af úll í hvert sinni, er hún skildi kjemba á viss um tíma, firsti ásinn tók af borðinu smatt og smatt ullina, og hreinsaði alt ruslt og hnappa úr henni í eirn stókk, um leið og úllin gjekk ifirum hann, á honum var stæðstur virinn, svo tók hvur ásinn við ullinni af öðrum, svo kom ullinn utúr gáti á maskinunni hinum meiginn, í silki greidum lopa, og vafðist löist ifirum litið kjebli, með snuðum á endunum, og er það var fult, var slitið frá og latið annað kjebli, og svo voru þaug látinn í aðra maskinu, og teigdi svo úr lopanum, eins og smá lippa. Svo á þiriðia lopti, voru tveir rókkar sem spunnu af kjeblunum, enn rókkunum gjet jeg ekki vel list svo

nókkur skili, það er hvur rókkur hjerum bil 20 alna langur, og spinnur á mörg þúsunð snældur í einu, þeir spinna bæði þrað og fyrir vaf, mjög fint og jamt, svo var verkfæri sem spólaði sjalt af snældunum fyrir vafið, og þetta var alla vegana litt, kambannir samkjemba ágjæta vel, svo á neðsta lóptinu voru 33 vefstaðir sem var ófið í álinn breitt og mjórra, og þar veru líka 16 vefstaðir sem var ófið í 2—3 álnir breitt, allavega röndótt og litt, og vel öfið, maskinann kastadi skittunni svo ótt í gjegnum skilid, að þar varð valla auga á fest, hún hljóp eptir grópi fram með skeiðinni að neðann, þó í skilinu, og útfyrir jaðarinn, enn í því augabliki, sló slagborðið, og kómskil á, það eru höföld á sköptum, enn þegar spólann er búinn, er stóppað með einu liltu handar viki, vefarannir gjöra ekki annað enn láta spóluna í, og bæta þrað af slitnar. sem þó kjemur fyrir, ekki þarf að færa á, það gjörir sig sjalt, með hvuriu slagi gjefur eptir og vinst uppa bómunnar, það passaði eirn maður uppa 2 vefstaði, þettað alt mikla og merkilega verk geingur af vatns ábli, ein stór á rennur með gabladi húsins, og snir stóru hjóli, og það hjól mörgum hundruð hjólum, með snúrum á, á öllum lóptunum, þar sem vefstaðinnir eru, heirist valla mans mál fyrir skjellunum í skittunum í slagborðinn, þær eru jarnaðar á endunum, og jarn á móti, að stjórna þessu öllu, var fjölði af köllum og konum, mormónar eiga þessa maskinu, Brikam ljet smida þessa maskinu, og sagdi mestpart fyrir öllu verkinu, það kvu vera ófnar mörg hundruð álnir á dag í þessum 49 vefstöðum, þar er lika maskina sem þvær úllina uppúr lógheitu sapu vatni, og svo hreinu vatni á eptir, í 6 alna löingum kassa, úllinn er latinn í, og svo þvælir maskinann í ullini, og kastar henni svo uppur sjer, eptir 4—5 minútur, ullinn geingur [illegible] óhrein af fjena, á 80 öre til kron.

---

# Um ferd mina frá Utak til Kaupmannahafnar.

---

Við fórum á stað þann 8. maí, og kómum þ. 14. í New-Yorvík, í þá 6 daga rann vagnatróssann 30 hundruð milur. Enskar og fyrir það borgaði jeg 360 kron, fyrir útann mát, jeg hafði hann með mjer, það kóstar meirra, að ferðast frá Utah, enn til, svo þann 16 frá Ameriku yfir Atlandshaf á dampi í 11½ daga, það eru 3048 mílur Enskar við feingum altaf bliðu veður á því, við komum inná höfn í Kvinstón á Írlandi, og vorum þar 3 kl. tíma, þar er fagurt og hálent, og skógi vagsið, til Líverpól komum við þann 28. maí, á skipinu voru 188 passisjerar, eða ferðafölk, frá imsum Löndum, og þar af 18 mormónar að boða þeirra trú, 10 af þeim fóru á England, og svo hinir, á Valland, Danmörku, Sveariki og 3 til Íslands, Gisli Einarsson frá Hrisnesi í Skaptartungu, í Skaptafelssislu, og Pjetur Valgarðsson frá Reykjavík, baðir prestar, trúargóðir og áreiðannlegir menn, sem öllum er óhætt að trúa, svo fórum við frá Líverpól á vagni, yfir um Englandi til Húll, og svo á Dampskipi til Hamborgar í Pröissaveldi, og rann skipið í 8 kl. tím. upp eptir Hamborgar elfu, og skipagrúinn á henni, upp og fram, hún er mikið vatn, og svo á dampvagni ifirum Pröissaveldi til Kil 2 júni, það er fallegt land, og fólk þar leglegt, þar var þá svo vel spröttið, að þar var verið að slá tún, og var sybreida á, munur er á, eða í Íslandi, svo frá Kil, á dæilega, fallegu og fljótu hjólskipi, til Kotsör á Danmörku, og svo á dampvagni til Hróarskjeldu, og áfram til Kaupmannahafnar, frá Amerikú, hingað, kóstaði 130 kron, og svo kóstar farið hjeðann til Íslandi 100 kron, í alt 590 kr. Þið sjáið að það kóstar míkla penínga, að komast til ikkur kjæru landar, og svo þegar við erum komnir til

ikkur, þá meigum við búast við, að sumir af ikkur verði svo sinnaðir, að heimta að setja ókkur fasta ef víð höfum ekki penínga til að borga alt, sem við verðum að biðia um, enn sem betur fer, eru þeir miklu fleirri, sem eru goð samir, og taka öingva bórgun, og heimta ókkur ekki fasta, einhver máskje finst, sem seigir, það er óþarfi fyrir ikkur, að vera að kosta uppa, að vera að koma hindað, það er rjett að vera ekki miskunsamur við ikkur, enn heirðu mjer kall minn, svo skildi hver öðrum gjöra, sem hann vildi að sjalfum sjer væri gjört, og hvurninn sem verður farið með ökkur, þá skulum við af fremsta megni, hliða herrans boðum, með að útbreiða sannleikann, og jeg vil eiða minum peníngum til þess með bestu samvisku, því jeg veit fyrir vist, að jeg safna mjer með því fjarsjoð á himnum eins og Pall seigir í fyrir korintu 9. kp. 16. v. og ef þu trúir hliðir sannleikanum hver sem þú ert, þá færðu líka s. þá blessun og upphefð í guðs riki, sem herran hef.. lofað þeim rjett trúndu.

Að endingu óska jeg af öllu hjarta, að allir men gái vel að sannleikanum í Ritningunni og Nyatestamentinu, það er hverium fyrir bestu sjalfum, og hurium mún þika undur um sig, ef illa er aðgjætt, og ef illa fer, og þá um seinann, latið ekki svæfa ikkur með mannasetningum vakni, þið betur af svefni, þið munuð ekki sja eptir því siðar, heldur miklu fremur gleðjast og fagna með lófsöing, og nú síðast bið jeg guð að gjefa, að þessar framann skrifuðu linur, leiððu fólk á rjettann saluhjalpar veg, það er min bæn í Jesu nafni. Amen!

Staddur í Kaupmannahöfn d. 12. júni 1882.

**E. Olafsson.**